# Verkalýðsblaðið

3.—4. tbl. 11. árg. 1. maí 1982 Verð kr. 10,00


# 1. maí ávarp Kommúnistasamtakanna

Verkafólk, íslensk alþýða!

Mannlegt samfélag nálgast nú þau tímamót, þar sem um annaðhvort er að velja, að brjótast úr viðjum þeirra þjóðfélagshátta sem þegar eru úr sér gengnir, ellegar tvístíga og bíða þess að ósköpin gangi yfir. Ósköp sem í versta falli gætu endað með algerri tortímingu mannlegs félags.

Enn hefur það afl ekki stigið fram á sjónarsviðið í hinum iðnþróaða hluta heimsins sem er í stakk búið til að leiða mannkynið fram til nýrra og betri þjóðfélagshátta. Því aðeins að verkalýðsstéttin og vinnandi fólk eignist forystu sem hefur skilning á þróunar- og byltingarmöguleikum kapítalismans geta þjóðir heims forðast verstu afleiðingar þeirrar kreppu sem sprottin er af framleiðsluháttum hans.



Allt bendir nú til langvarandi kreppu hins kapítalíska heims, — kreppu sem í versta falli gæti leitt yfir okkur algert hrun siðmenningar að áliti hinna bölsýnari talsmanna borgarastéttarinnar. Sagan hefur þó kennt okkur að úr örgustu óreiðu geta sprottið nytsamlegustu hlutir. Þegar talsmenn borgaranna tala um hrun siðmenningar eiga þeir auðvitað við hrun borgaralegrar siðmenningar. Í plógför kreppunnar viljum við hinsvegar sá til nýrrar siðmenningar, sósíalískrar siðmenningar. Nú þegar kreppan vofir yfir verða byltingaröflin að búa sig undir sáninguna með því að móta sér stefnu sem leysir úr vanda — ekki aðeins hinna snauðustu meðal þjóða heims — heldur einnig þeirra sem búa við betri kjör.

Á meðan krepputeiknin nálgast sefur verkalýðsforystan Þyrnirósarsvefni sínum. Í stað þess að efla virkni og baráttuþrek verkalýðshreyfingarinnar hefur hún sett traust sitt á ,,vinveitta'' ríkisstjórn. Hún hefur tekið frumkvæðið úr höndum verkalýðsins og fært það inní þing og ríkisstjórn þar sem Alþýðubandalagið situr og makkar um fáeinar krónur úr þjóðarkökunni við íhaldsöflin, án þess að vega í einu eða neinu að hagsmunum borgarastéttarinnar. Sósíalísk baráttustefna er þeim flokki svo algerlega gleymd, að hann lætur sig hafa það að beita afli sínu til þess að slæva baráttu verkafólks, þess eina afls sem gæti stutt flokkinn til róttækrar umbótastefnu. Sósíalismi er ekki lengur á dagskrá flokksins, né er honum haldið á lofti í verkalýðshreyfingunni. Oft var þörf en nú er nauðsyn að víkja úr vegi þeirri forystu sem kann ekki aðra baráttuaðferð en undanlátssemi og setur allt sitt traust á þaulsetna ráðherra.

Auðvaldskreppan sem tröllríður iðnríkjum vesturlanda hefur ennig komið niður á fátæku ríkjunum. Kreppa heimsvaldastefnunnar mun hvetja þau öfl sem treysta vilja efnahagslegt sjálfstæði landa sinna gegn ítökum hennar. Þjóðlegar og sósíalískar byltingarhreyfingar eflast nú í þessum löndum. Í Mið-Ameríku, í Afganistan, Kampútseu og víðar brýst þessi hreyfing fram í vopnuðum átökum. Hinar vaxandi byltingarhreyfingar eru ógnun við heimsvaldastefnuna hvort heldur í austri eða vestri. Róttækt fólk á Íslandi þarf að vera reiðubúið að veita byltingaröflum allan hugsanlegan stuðning gegn gagnsókn afturhaldsaflanna. Hvorki munum við láta óátalið að Bandaríkin haldi verndarhendi yfir blóðþyrstum morðingjastjórnum rómönsku Ameríku né munum við líða morðárásir sovéska afturhaldsins gegn alþýðu Afganistan.

Í Póllandi fer nú fram barátta sem kann að hafa úrslitaáhrif á verkalýðsbaráttu heimsins. Í pólska ,,vorinu'' er fólgið uppgjör við þjóðfélagskerfi að hætti hins sovéska sem verkalýðshreyfingin og kommúnistahreyfingin geta ekki leitt hjá sér. Í Póllandi kann að ráðast hvort takast mun að rjúfa skarð í þann Berlínarmúr zarískrar forneskju sem hefur umlukið sósíalíska hreyfingu í áratugi. Takist Pólverjum að ryðja brautina fyrir raunverulegan sósíalisma frelsis og mannréttinda mun það verða þungt lóð á vogarskál sósílískrar verkalýðsbaráttu.

1. maí er dagur sem róttækt verkafólk, sósíalistar og kommúnistar nota til þess að láta í ljós óskir sínar um nýtt samfélag hins vinnandi fólks, kröfur sínar um lýðræði, betri lífskjör og félagslegt réttlæti, andúð sína á félagslegu ranglæti kapítalismans og úrræðaleysi.

Verkafólk, sósíalistar og allir baráttufúsir!

Mætið í aðgerðir Rauðrar verkalýðseiningar og látið rödd ykkar hljóma!

Kommúnistasamtökin

## Opið hús

Kommúnistasamtakanna og Verkalýðsblaðsins verður **1. maí** í Sóknarsalnum að Feyjugötu 27

**Mætum öll í Sóknarsalinn kl. 16.00!**

VINSTRI HREYFINGIN: Viðtöl

Sjá opnu

Tryggja kosningar lýðræði?

Sjá bls. 8

12 síður

## Nýju ungmennafélögin:

# Sniffið aðeins skammdegismál?

**Eitt af skammdegismálum okkar Íslendinga er sniffið. 14 ára drengur var fluttur meðvitundarlaus á Borgarspítalann af völdum sniffs. Hann liggur þar enn og er illa haldinn. Þessu var slegið upp í Dagblaðinu og Vísi og hefur veri eitt af aðalumræðuefnum manna á meðal.**

**Verkalýðsblaðið vill gera það sem DV eða önnur blöð gera ekki, reyna að setja þetta mál í samhengi við ýmis atriði í þróun Reykjavíkurborgar og þá sérstaklega Breiðholtshverfis.**



**Vanþróað hverfi?**

## Breiðholt: Vanþróað hverfi?

Félagsleg vandamál í Breiðholti eru mikil og vaxandi. Hlutar Fella- og Hólahverfis, viss svæði í Neðra-Breiðholti og hlutar Seljahverfis eru að nokkru íbúðir á vegum bæjarins, eða þá verkamannabústaðir eða aðrar félagslegar íbúðabyggingar. Eignarform félagslegu íbúðanna er þannig að ekki er unnt að selja þær aftur, margar hverjar, og í leiguíbúðum borgarinnar er oft fólk sem hefur „lent undir í lífsbaráttunni".

Þannig hefur húsnæðispólitík valdhafanna orðið til þess að þeir sem verst eru settir félagslega, atvinnulega og efnahagslega safnast saman á nokkur svæði í Breiðholtinu.

Í Breiðholtinu eru nær eingöngu íbúðir. Atvinnu sækja menn í aðrar áttir, í iðnaðarhverfin eða verslunarhverfin niður í bæ. Þær stofnanir sem veita atvinnu í Breiðholtinu eru aðeins skólarnir og örfáar verslanir. Skólarnir í Breiðholti eiga við að stríða húsnæðisskort, vöntun á félagsaðstöðu, það vantar íþrótta- og sundaðstöðu. **Ein félagsmiðstöð fyrir** unglinga er í þessu mannflesta hverfi borgarinnar Fellahellir, en engin önnur félagsaðstaða (nema Broadway).

## Nýju ungmennafélögin

Við þessar aðstæður má unga kynslóðin vaxa úr grasi. Ég ætla að taka betur fyrir þá þætti sem hafa áhrif á líf unga fólksins í Breiðholti.

1. Heimilisfeður vinna ekki í hverfinu. Mæðurnar vinna oft úti, og þá yfirleitt ekki í hverfinu heldur. Afleiðingin er upplausn fjölskyldunnar og firring barnanna frá hjartslætti þjóðfélagsins. Sundraðar fjölskyldur verða verst úti.

2. Skólarnir eru þær stofnanir sem börnin hafa mest kynni af. Mörgum börnum kemur skólinn fyrir sjónir sem kúgunarstofnun, hann höfðar ekki til þeirra, og þau gefast upp á að reyna að ráða við námsefni sem oft er fjarri þeirra eigin reynsluheimi.

3. Samþjöppun „undirmálsfólks" (fólks sem ekki ræður við samkeppnisanda hins kapítalíska þjóðfélags) á viss svæði í Breiðholtinu, veldur því að þar myndast svokallaður súbkúltúr, undirmenning, í ómeðvitraðri andstöðu við þjóðfélagið.

Við þessar aðstæður verða til nýju ungmennafélögin. Börn og unglingar frá 10 ára aldri og upp úr hópa sig saman í klíkur, svo sem Mau-Mau klíkuna í Fellahverfi, Kiss-klíkuna í Neðra-Breiðholti o.fl. Þessar klíkur halda mjög fast saman. Krakkarnir finna þarna öryggi og vernd, sem fæst hvorki í skólunum né heimilum í nægilegum mæli. Innan þeirra er mjög sterkur félagsandi, venjulega er einn foringi, sem stjórnar.

Hugmyndafræði þessara hópa er oft sprottin upp úr rokktónlist, t.d. pönki. Fyrirmyndirnar eru sóttar þaðan. Sumar klíkurnar hafa myndað hljómsveitir, og er hljómsveitin Sjálfsfróun líklega eitt besta dæmið um túlkun Reykjavíkurunglinga á umhverfi sínu í **gegnum list.**

## Sniff

Ég kem nú loks að dægurmálinu, sniffinu. Firring unglinganna í Breiðholtinu (og yfirleitt í Reykjavík) er mikil. Eins og þekkt er bregðast menn oft við firringu með því að neyta efna sem breyta hugarástandinu. **Kveikjaragas er auðvelt að ná í, það er ekki ólöglegt að neyta þess og það gefur nægi**lega sterk vímuáhrif, eins og dæmin sanna. Mun auðveldara og hættulausara er að sniffa en að reykja t.d. hass eða ná í brennivín sem er dýrt.

Unglingurinn sem var fluttur á gjörgæsludeild Borgarspítalans ólst upp í áðurlýstu umhverfi.

## Leynd

Sem eftirskrift má minnast á tilraunir félags- og sálfræðinema í Háskólanum til að kanna námsárangur barna í Fellahverfi og samhengi hans við stéttaafstæður. Undantekningalaust hafa einkunnir og aðrar upplýsingar ekki fengist gefnar upp. Yfirvöldin reyna að fela leyndarmálið.

# Kvennaframboð á Akureyri

Tíðindamaður **Verkalýðsblaðsins** hringdi í Nönnu Mjöll Atladóttur á Akureyri og spurði hana frétta af kvennaframboðinu þar.

Kvennaframboðið hefur nýverið opnað skrifstofu í svokölluðu „kvennarisi" við Hafnarstræti. Er þar opið hús allan daginn og hefur verið ráðinn starfsmaður. Þrjú blöð hafa verið gefin út og er þeim dreift í hús, en blöðin eru kostuð af auglýsingum. Fram undir það síðasta hefur starfið beinst mest inn á við, að stefnumótun og skipulagningu, en nú verður farið á fullu í áróðursstarf.

**VBL: Hver eru helstu baráttumál kvennaframboðsins?**

NMA: Það eru eiginlega flest þau hagsmunamál sem tengjast meira mannlega þættinum, heldur en t.d. malbikun o.þ.h. Við höfum lagt mikla áherslu á dagvistarmál og einnig skólamál og þá viljum við einsetna skóla, smærri og fleiri skóla og mötuneyti. Þá finnst okkur að bæjarstjórn þurfi að snúa sér að atvinnumálum kvenna og jafnréttismálum.

**Hvernig eru undirtektir?**

Það hefur nú engin skoðanakönnun verið gerð hér. En mikill fjöldi hefur litið inn í „kvennarisið" og ég tel að ca 100 manns hafi verið virkir í starfi og fundum. Pólitísku flokkarnir reyna hvað þeir geta til að þegja okkur í hel. Sem dæmi má nefna að á tvo blaðamannafundi sem við höfum boðað hefur enginn blaðamaður mætt. Hermann Sveinbjörnsson fréttaritari sjónvarpsins er jafnframt ritstjóri Framsóknarblaðsins „Dags" og hefur lýst því yfir að hann hafi engan áhuga á kvennaframboðinu og muni ekki senda fréttir af því fyrir sjónvarpið. Annars er enginn slagur byrjaður enn, ég hef ekki orðið vör við að heift sé hlaupin í fólk og er að vona að kosningabaráttan geti orðið málefnaleg.



**Nanna Mjöll Atladóttir**

Við ætlum að reka baráttuna með dálítið öðrum hætti en tíðkast hefur. Við ætlum t.d. ekki að leggja áherslu á hallelújaninfundi, heldur fara niður í bæ og vera þar með borð og kaffiveitingar og ræða við fólk.

—/ess

Framhald af baksíðu

# Metið kvenna-framboð

kvenna, menntun, atvinnustöðu o.fl. sést að það verður að vinna mikið umbótastarf sem gagnast konum almennt **meðfram** og **í tengslum við** sósíalíska baráttu. Enda er langur vegur milli lítt þróaðrar jafnréttishugsjónar og sósílískrar byltingarbaráttu. Hvernig á að þoka konum (og körlum) milli þessara vegmerkja? Það hlýtur að þurfa að lúta skilyrðum og skipuleggja mismunandi kvennasamtök, samfylkingar og flokka.

## Gagnrýni Kommúnistasamtakanna

Kommúnistar telja svonefndan reynsluheim kvenna (sbr. grundvöll KF) ekki tilbúning. En hann er **í raun háður stéttarstöðu kvenna** og því nær að segja að reynsluheimar kvenna því ekki að athuga hvernig best sé að koma fyrir jafnréttisbaráttu **í verkalýðshreyfingunni, meðal kvennafjöldans** sem fylgir ýmsum flokkum og **meðal sósíalískra kvenna**? Ekki þarf að leggja Rsh niður heldur stuðla að myndun breiðari samtaka.

## Aðstæður eru skilyrði!

Vinstri mönnum hefur oft hætt til að böðlast áfram og búa til spilaborgir með því að skoða illa aðstæður. Ingibjörg Sólrún Gísladóttir, ein úr KF, hafnar slíkri hughyggju og segir að KF sé rökrétt svar við athugun á aðstæðum jafnréttisbaráttunnar hér (viðtal Neista í mars). Á svari Fylkingarfélaga er að skilja að það sé ekkert samband milli stéttarlegs inntaks kvennabaráttu og kynbundins þegar grannt er skoðað. Annað segir þó starf Rsh og skoðanir róttækra kvenna. Skoði menn tekjumyndun í þjóðfelaginu, félagsaðstöðu séu **margir**. Hitt er svo rétt að konur geta sameinað ýmislegt úr reynsluheimum sínum og unnið saman að **umbótum** í jafnréttisátt. Framtíðarlausnir eru aftur á móti áreiðanlega stéttbundnar og sósíalískar. Plagg KF gerir ekki grein fyrir þessu en verður þó að teljast framsækið miðað við fyrrgreinda samvinnu kvenna úr ólíkum stéttum. Einkunn Rsh („borgaralegt plagg") er einsýn og hrokafull. KS hljóta líka að vera ósammála kröfum Rsh um að framboðshópur kvenna eigi að geta greint hina flokkana og gert upp við stefnu þeirra. Til slíksa þarf sjóaðan og væntanlega marxískan flokk! Enn undarlegri er krafa Rsh um að kvennaframboðið skilgreini kröfur sínar **áður** en farið er út í framboðsstarfið. Slíkt er ekki hægt að gera nema í tengslum við rannsóknir á borgarmálefnum þegar um er að ræða hóp sem enga reynslu hefur af borgarstjórn. KS hljóta aftur á móti að gagnrýna óljóst umtal um tæknivæðingu með óhjákvæmilegri (?) mengun og nauðgun á frumþörfum (?) mannsins og um orsakir misréttis sem skilja mætti á þann veg að undirrótin væri karleðli en ekki arðrán. KS telja ekki rétt að meta kvennaframboðið af umræddu stefnuplaggi einu sér. Í því eru mörg sannleikskorn, en töluvert rangt líka. Væntanleg kosningastefnuskrá sker úr og allavega kemur framboðið til móts við þann mikla kvennafjölda sem stendur á milli Rsh og óvirkninnar. Kosningasigur KF mun líkt og sigur Vigdísar forseta vera gott framlag til jafnréttisbaráttu og koma meirihluta kvenna — launafólki — að notum.

Kommúnistasamtökin gætu hugsanlega lýst yfir stuðningi við kvennaframboðið. En hingað til hafa þau gert vond mistök: Látið vera að taka þátt í undirbúningi þess.

— agé

Verkalýðsblaðið

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ari Trausti Guðmundsson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14
Opnunartími: Alla laugardaga kl. 11—15
Sími: 2 92 12
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gíróreikningur: 12 200, Póstgíróstofan
Prentað í Offsetprent

# Kosningatilþrif AB

Kjaramálin eru oftast ofarlega í hugum launamanna. Samt er kjarabaráttan daufleg. Hollt væri að hugleiða ástæður þess. En jafnvel þótt kjarabaráttan væri öflugri ber hún miklar takmarkanir í sjálfri sér, sem gjarnan vilja gleymast. Í samfélagi þar sem menn komast til valda með því að verða duglegir við að lifa af annarra vinnu, hefur stéttin sú 1001 aðferð uppi við að ná aftur því sem launamenn merja út úr fyrirtækjunum.

Varanlegur árangur í kjarabaráttu næst aðeins með því að tengja hana meðvitað pólitískum úrlausnum í landsmálum. Og það er einmitt þarna sem launamenn standa verst að vígi. Þeir eiga sér engan málsvara sem er sjálfum sér samkvæmur og lætur ávallt stjórnast af hagsmunum fólksins. Flokkarnir fjórir eru eiginhagsmunahópar og hafa allir þau markmið að lengja lífdaga arðránskerfisins ef dæma má af verkunum. Þarna ber Alþýðubandalagið þyngri ábyrgð gagnvart verkafólki en aðrir. Um margt er þetta mótsögn því AB er umbótasinnaðri en hinir flokkarnir og á sér nokkur framsækin stefnumál. Hann er líka róttækari í orðavali en aðrir. En einmitt í því liggur geta hans til að svæfa sósíalíska baráttu og kjarabaráttu sem vegur að rótum arðránskerfisins.

En nú eru kosningar í vor. Því má búast við hinni venjubundnu taktík af hálfu flokksins. Bumbur eru barðar og góðum málstað hampað. En getum við treyst því að AB berjist til þrautar fyrir 13% launahækkun til ASÍ, fyrir stöðvun Helguvíkurframkvæmda og fyrir þjóðnýtingu álversins? Nei. Völd í kerfinu og biðlun til hægri ráða ferðinni.

leiðtogum eða forystu Alþýðuflokks og Alþýðubandalags. Því miður eru baráttusinnar innan verkalýðshreyfingarinnar bæði sundraðir og fremur fáir, þótt teikn séu um vaxandi baráttuhug og samstöðu. Þar sem gera má ráð fyrir samningaþófi til hausts ættu baráttusinnar að leita hvers annars uppi.

# Einar aðgerðir 1. maí

1. maí er alþjóðlegur baráttudagur verkalýðsins. Íslensk verkalýðsforysta er að meirihluta til dyggur flokksþjónn sem tekur mið af afkomu fyrirtækja en ekki alþýðuheimila þegar á reynir. Sussu-bíu-pólitík hefur löngum einkennt aðgerðir verkalýðshreyfingarinnar 1. maí. Loforð, bitlausar yfirlýsingar og sinnuleysi gagnvart alþjóðlegu verkefnum alþýðunnar hafa gert þennan baráttudag að meinlitlum frídegi.

Róttæk öfl hafa hins vegar reynt að halda merki stéttabaráttu á lofti þennan dag. Oftast hafa þau skipulagt aðskildar aðgerðir og látið málefnaágreining sín í milli lita daginn. Að þessu sinni er þó annað í vændum. Í Reykjavík hafa Kommúnistasamtökin, Fylkingin, Rauðsokkar og fleiri aðilar tekið höndum saman og skipulagt sameiginlegar aðgerðir undir nafni Rauðrar verkalýðseiningar. Með því viljum við efla kjarabaráttuna og baráttuna fyrir sósíalisma. Kommúnistasamtökin urðu að gera miklar málamiðlanir af þessu tilefni, sem vonandi voru fórnanna virði, meðan reykvísk alþýða hefur þá þann valkost 1. maí sem gerir henni kleift að halda upp á daginn með reisn.




**Argentínskur bryndreki í Puerto Rivera á Malvinaseyjum.**

# Horfur í kjarasamningum

Halldór Blöndal, alþm. rekur í Mbl. 20. mars sl. hvernig sú stefna Framsóknar og Alþýðubandalags — atvinnurekenda raunar líka — að láta viðskiptakjör hafa áhrif á verðbætur, hefur leikið launamenn. Frá 1. sept. 1979 til 1. mars 1982 hafa laun lækkað að jafnaði um 1% fimm sinnum, en komið hefur verið í veg fyrir þrjár launahækkanir vegna jákvæðra viðskiptakjara, um 0,8% að jafnaði. Í heild er þessi launaskerðing a.m.k. 10%. Við hana bætist önnur skerðing á tímabilinu, enda svo komið að vinnutími fólks er langt yfir 50 stundir á viku, meðalgrunnlaun ná um 50% framfærslukostnaðar og yfirborganir drjúgar með tilheyrandi misrétti. Yfirborganir gera orð VSÍ um engar grunnkaupshækkanir að marklausu þvaðri.

Í ljósi alls þessa er hæpið að kröfur ASÍ um 13% launahækkun o.fl. dugi til. Stefna ASÍ er því að **staðfesta kauprán** undangenginna ára og það fer ekki fyrir brjóstið á verkalýðs-

# Falklandseyjadeilan

Í deilunni um Malvinas- eða Falklandseyjar leikur lítill vafi á að Bretar slógu óréttmætri eign sinni á eyjarnar skammt undan Argentínuströndum nærri 20 árum **eftir** að Argentína varð sjálfstætt ríki. Viðurstyggilegt stjórnarfar í Argentínu um þessar mundir getur ekki haft í för með sér að lýðræðissinnar og kommúnistar afneiti rétti Argentínu til eyjanna. Þá enda menn í því að réttlæta hernám eins ríkis á öðru, bara ef stjórnarfar þar er nógu rotið. Hitt er svo annað mál að íbúar eyjanna hafa rétt til að byggja þar áfram og fyrir velferð þeirra verður að hugsa. Ekki má svo gleyma því hvernig risaveldin nota sér deilurnar og að þau ásamt deiluaðilum eiga í baráttu um náttúruauðæfi og aðgang að Suðurheimskautslandinu.

Farsæl lausn hlýtur að fela í sér viðurkenningu á að eyjarnar eru argentískt land um leið og Bretar, Argentínumenn og jafnvel fleiri tryggja hagsmuni íbúanna.

20 apríl —agé

# Við biðjum forláts

Lesendur munu væntanlega hafa tekið eftir því að þeir fengu ekki 4 síðna tölublað (nr. 3) í mars sent í pósti. Skýringin er sú að vélsetning blaðsins fór í handaskolum og var því ekki unnt að vinna tölublaðið á tilsettum tíma, 23. mars. Ekki var ljóst fyrr en í byrjun apríl að hægt væri að setja blaðið að hluta til upp á nýtt, auk þess sem forföll setjara ollu töfum. Þar eð páskar voru í nánd og farið var að berast efni í apríltölublaðið ákvað ritnefnd að slá 3. og 4. tölublaði saman í eitt veglegt 12 síðna blað.

Við biðjum áskrifendur og lesendur velvirðingar á þessu og vonum að okkur takist að bæta þeim upp dráttinn á 3. tbl. með þessari útgáfu.

Ritnefnd

# BHM-menn bíta í súrt

Í árslok 1981 samdi BSRB um 3,25% launahækkun handa sínum félagsmönnum auk nokkurra annarra atriða. Suttu síðar gekk BHM að sams konar samningum en sagði svo upp aðalkjarasamningi sínum og krafðist að bætt yrði kaupmáttarskerðing allt frá des. 1977 til ársloka 1981. Samkvæmt íhaldssömum reikningum nemur hún 20%. Stór hluti opinberra starfsmanna er nú með grunnlaun undir lágmarksframfærslukostnaði þeim er hagstofnanir ætla vísitölufjölskyldu — 60—70% á að giska.

Fjármálaráðuneytið var ekki til viðtals um neinar breytingar aðrar en lækka mark fyrir launaflokkshækkun úr 15 árum í 13. Málið fór fyrir Kjaradóm, sem er að meirihluta skipaður embættismönnum ríkisvalds. Hann dæmdi BHM enga kauphækkun, en heimilaði að tveimur launaflokkum yrði bætt ofan á launastigann. Auk nokkurra smáatriða dæmdi Kjaradómur líka inn nýja launaflokkshækkun við 9 ára markið.

Í sérkjarasamningum aðildarfélaga BHM var sami þvergirðingshátturinn uppi hjá viðsemjendunum og fór málið líka í dóminn. Hann tók ekkert tillit til viðamikillar kröfugerðar félaga og afneitaði öllum kjarabótum, nema ýmsum launaflokksbreytingum er koma allmörgum einstaklingum með langan starfsaldur til góða og of langt mál yrði að rekja hér.

Það veldur mér og kannski einhverjum öðrum alltaf jafn mikilli furðu hvernig launamenn í BHM geta þolað fjármálaráðuneytinu kjararánsstefnuna og sætt sig við þvílíkt miðaldafyrirkomulag og réttarleysi við kjarasamninga og BHM býr við.

—fréttaritari

## Guðmundur Sæmundsson í viðtali:

# „Upphafið á nýju stigi í baráttunni innan Einingar"

**Framboð baráttusinna í Verkalýðsfélaginu Einingu við Eyjafjörð nú fyrr í vetur vakti þjóðarathygli, ekki síður en athygli þeirra sem gefa gaum að baráttunni innan verkalýðsfélaganna fyrir lýðræði, aukinni virkni og baráttustefnu.**

**Verkalýðsblaðið greip því tækifærið þegar Guðmundur Sæmundsson, einn höfuðpaura andstöðuframboðsins í Einingu, var á ferðinni í Reykjavík á dögunum til að spyrja hann nokkurra spurninga um framboðsmálin nyrðra.**

**Guðmundur. Hvers vegna var boðið fram í Einingu gegn stjórn Jóns Helgasonar?**

Ástæðan var sú að það var búin að vera uppi mikil óánægja með starfsaðferðir forystunnar í félaginu. Þessi óánægja hefur m.a. komið fram í mjög lítilli þátttöku félagsmanna í öllu starfi, en því meira umtali á vinnustöðunum. Fólk vildi því prófa hvað hægt væri að gera til að bæta ástandið innan félagsins.

**Var þá þessi óvirka óánægja eini grundvöllur framboðs?**

Það má segja að hún hafi verið megingrundvöllurinn fyrir framboðinu, svo og ósk um lýðræði í félaginu og það tengist svo kjaramálunum: Hvers vegna lýðræði? Til þess að fólk geti haft meiri áhrif á kjör sín og að koma fram umbótum. Þannig hafði þetta framboð klára stefnu í kjaramálunum sem var talsvert harðari en stefna stjórnarinnar.

Það kom strax í ljós þegar þetta fór af stað að það er grundvöllur fyrir hreyfingu. Hugmyndin kom upp í tiltölulega afmörkuðum hópi. Þegar farið var síðan að vinna að þessu kom í ljós að það var grundvöllur fyrir því að fara í svona framboð og fyrir því að taka upp baráttu innan félagsins. Þessi hreyfing varð sífellt stærri eftir því sem leið nærri kosningum og það var orðið ansi mikið af fólki sem tók þar þátt.

**Ef litið er á tölulegar niðurstöður kosninganna virðist ekki hafa átt sér stað breyting á stöðu forystunnar, hún heldur sínum tveim þriðja hluta atkvæða. Var hér um að ræða sama hópinn og áður stóð að baki Jóni Ásgeirssyni og fél.?**

Það má kannske segja að við höfum ekki náð svo mikið inn í raðir stuðningsmanna forystunnar. Að vísu stóðu að þessu framboði margir sem áður höfðu stutt Jón Helgason og öfugt. Hins vegar held ég að


Guðmundur Sæmundsson

það megi mæla þetta nokkuð öðruvísi. Í kosningunum '74 og '75 var verulega meiri þátttaka heldur en nú. Þótt prósentan sé svipuð nú hjá forystunni, þá reyndist raunverulegur stuðningur við hana innan félagsins talsvert minni.

Lítil kjörsókn skýrist kannske á tvo vegu: Það er búið að drepa niður áhugann í félaginu fyrir félagsmálum. Það er búið að eyðileggja allt traust almennra félagsmanna á því að það séu til einhverjir sem vilja berjast fyrir raunverulegum hagsmunum fólksins sjálfs en ekki einhverra pólitískra flokka. Fólk lítur á framboð okkar sem venjulegt flokkspólitískt framboð, enda gerði forystan allt sem hún gat til að stimpla þetta framboð rautt í baráttu sinni fyrir endurkjöri. Það hræddi margan frá því að koma til stuðnings þrátt fyrir að framboðið væri í rauninni ákaflega breitt sé litið á pólitíska afstöðu fólks.

**Hver telurðu þá að árangurinn af framboðinu hafi verið?**

Ég held að árangurinn sé tvíþættur. Annars vegar er sú staðreynd að með þessari kosningabaráttu tókst að ná tengslum við fleiri hundruð manns í félaginu sem virðist vera tilbúið að halda áfram baráttunni. Þessi tengsl höfðum við ekki áður en slagurinn hófst, þótt við hefðum óljósar hugmyndir um þetta fólk. Hins vegar er sá lærdómur sem við getum dregið af þessari kosningabaráttu. Nú erum við undir það búin að fara í annan slag, vitandi þá nokkurn veginn hvaða aðferðum verður beitt gegn framboði. Við vorum óviðbúin alls konar persónulegum rógi, áróðri og beinlínis lygum sem voru bornar á borð. Við lærðum af þessum aðferðum geysimikið um vinnubrögð verkalýðsforystunnar.

**Þú telur þá viðbúið að það verði framhald á þessari hreyfingu?**

Ég held það. Það er alveg ljóst að baráttan mun halda áfram og að framboðið hafi verið mikil hvatning til þess. Hvort sem sú leið verði falin að bjóða fram á hverju ári þar til meirihluti næst eða einhverjar aðrar leiðir, þá var þetta upphafið að nýju stigi í baráttunni innan félagsins.

Næst á dagskrá hjá okkur er að hittast á ráðstefnu fyrir vorið og byrja strax að undirbúa næstu skref í baráttunni, bæði að taka upp samningamálin og skipuleggja baráttuna innan félagsins.

**Að lokum Guðmundur. Telurðu að slík starfsemi innan stéttarfélags sé möguleg án pólitísks leiðarhnoðs?**

Ég held að sú hugmynd ein að auka lýðræðið og hafa einhverjar hugmyndir um hvernig

Framhald á bls. 9

# Hvar er nú andstaðan?

**Skammtímasamningarnir sem gerðir voru í nóvember sl. voru samþykktir í öllum félögum. Á félagsfundum var þó nokkur andstaða ef miðað er við mótatkvæði. Engin leið er þó að gera sér grein fyrir hver hún er í ASÍ, þar sem mæting á félagsfundi er yfirleitt dræm. Í BSRB, þar sem allsherjaratkvæðagreiðsla fór fram, voru hlutföllin $^{2}/_{3}$ móti $^{1}/_{3}$ samningunum í hag.**

## Brýn verkefni

Af afgreiðslu samninganna má draga þá ályktun að verulegt áhugaleysi sé meðal launamanna á kjaramálum og er þar fremur um vonleysi og reiði að ræða en skort á stéttvísi. Önnur ályktun er líka sannverðug. Hún er sú að allstór hópur manna í ASÍ-félögum og í BSRB gæti verið efni í skipulegt andóf gegn stéttasamvinnu og úrtölustefnu þess hluta verkalýðsforystunnar sem starfar á grundvelli atvinnurekenda og gengur erinda flokkanna í sérhagsmunapoti þeirra.

Kommúnistasamtökin hafa margoft varpað fram hugmyndum að brýnustu verkefnum slíkrar andstöðu og í sjálfu sér ekki gert ráð fyrir því að hún þyrfti endilega að mynda með sér ein samtök. Meðal verkefnanna eru þessi:

**1.** Að minnka samflotin í samningunum og viðurkenna sérstöðu og sérárangur einstakra starfsgreinahópa.

**2.** Að auka útreikninga ríkis og atvinnurekenda á greiðslugetu fyrirtækja.

**3.** Að tryggja fullar vísitölubætur skv. raunverulegum framfærslukostnaði.

**4.** Að breyta starfsháttum verkalýðsfélaga í lýðræðisátt, einfalda kosninga- og kjörgengisreglur og hefja fræðslu undir merkjum stéttabaráttu.

## Því gerist svona lítið?

Kommúnistasamtökin hafa líka haft þá afstöðu að hér sé ekki einungis verið að ræða um verkefni handa sósíalistum einum, heldur verkalýðssinnum úr öðrum herbúðum, óflokksbundnu fólki sem er ekki tilbúið að skrifa undir sósíalískar kröfur og jafnvel fólki sem hefur aðeins framsækna afstöðu í einu eða fáum málum.

Hvers vegna lætur andstaðan lítið yfir sér? Hvar eru þeir Andófsmenn og Áhugasamir í BSRB og Stéttabaráttuhópurinn sem myndaður var á síðasta ári? Það er vissulega öfugmæli að baráttusinnar innan verkalýðshreyfingarinnar skuli láta æ minna fara fyrir sér eftir því sem harðar er gengið á kjör og samningsrétt launamanna.

Ég ætla að nefna h ér til tvö atriði. Hið fyrra er hin pólitíska staða í landinu. Hið síðara einangrunarstefna margra róttæklinga.

## Pólitísk staða

Andstaðan geldur þess að það eru ekki til öflug stjórnmálasamtök verkafólks í landinu sem gætu haft samráð og forystu fyrir andófsstarfinu. Mörg sjónarmið Fylkingarinnar og Kommúnistasamtakanna í kjaramálum fara saman, en bæði samtökin eru afllítil og eiga sér ekki traustvekjandi fortíð (tel ég þar KS mun gæfulegri). Samtökin geta ekki staðið fyrir uppbyggingu andófsins. Þá er ónefnt Alþýðubandalagið.

Áhrif þess meðal launafólks og andófsmanna eru veruleg. Núna bregst það launafólki í nær hverju máli og rekur grjótharða afturhaldspólitík sem miðar að því að halda ,,stéttafrið'' og gefa ríkisstjórninni tóm til að bjarga auðskipulaginu úr vondri kreppuþróun. Bandalaginu tekst að kæfa og splundra tilraunum til andófs og gerir fjölmarga óánægða verkalýðssinna máttlausa fyrir öllu. Hugsið ykkur hvernig AB hefði smjaðrarð fyrir Félagi bókagerðarmanna ef það hefði séð sér hag í því?

En hinu er ekki að leyna að nokkrir andófsmenn sem hafa haft reisn til að láta á sér bera (bæði félagar KS og aðrir) hafa **vanmetið** þýðingu pólitískrar fræðslu og sósíalísks áróðurs og því ekki styrkt framsæknustu andófsöflin, heldur haldið sig við þröngan hring kjarabaráttunnar. Þetta kemur fram í því að Kommúnistasamtökin, Fylkingin og ,,órólega deildin'' í AB standa í stað.

Í stuttu máli: Pólitíska staðan er andstæð baráttu fyrir lýðræðislegri og stéttabaráttusinnaðri verkalýðshreyfingu.

## Einangrunarstefnan

Tilraunir til andófa (þó ekki í BSRB) hafa verið brenndar ljótu marki. Margir róttæklingar (sérstaklega úr Fylkingunni) hafa gert óraunsæar kröfur og þvaðrað um ,,sósíalíska'' andstöðu í verkalýðshreyfingunni. Þeir hafa sneitt framhjá fólki sem þeim hefur ekki þótt nógu róttækt, ekki leitað samstarfs við krata eða aðra sem hafa þó tekið framsækna afstöðu í stöku málum. Umræður hafa farið í ótímabæra háloftaspeki og fælt frá. Hér er ruglað saman langtímamarkmiðum og taktík dagsins. Maður verður að byrja á því stig **sem fólkið er á.** Það er ekkert svigrúm fyrir byltingarsinnaða verkalýðshreyfingu hér og nú.

Endurreisn verkalýðshreyfingarinnar er **ferli** sem verður að hefjast með því að berja niður einangrunarstefnu og hefja umbótastarf í fáum afmörkuðum málum, t.d. breytingum á starfsháttum félaganna. En eins og segir hér á undan er það svo **skylda** kommúnista að halda uppi stéttarlegri fræðslu innan slíks starfs til þess að bæta pólitísku stöðuna og efla byltingarsinnaða baráttu.

— agé

# Gleymdu stríðin

Framhald af bls. 10

þegar þess er gætt að eyjarnar tilheyra Eritreu og að stjórnin í Addis Ababa undirokar fleiri þjóðir eða þjóðarbrot í landinu sem myndu brjótast undan okinu ef Eritreumenn sigra í baráttu sinni. 11 ára stríð hefur valdið dauða yfir 20% Eritreumanna — fyrst voru vopnin bandarísk í tíð Haile Selasse keisara. Nú eru þau sovésk og a-evrópsk og beitt í nafni ,,sósíalisma'' af leppum sem lafa uppi vegna fjáraustus Kremlarbænda sem geta ekki einu sinni brauðfætt þjóðir heimaríkisins.

Látum gleymdu stríðin — og þau eru fleiri — ýta við samvisku sem flestra!

— agé

# Tengsl einokunar og verðbólgu

Meðal marxista hefur verið tilhneigin til að beita einfaldri skýringu á verðbólguna, svokallaðri peningamagnskenningu. Í kenningum af því tagi felst sú skýring, að verðbólga orsakist af aukningu peningamagns í umferð, án þess að framleiðsla aukist að sama skapi. Reyndar er það svo, að verðbólga án aukins magns peninga í umferð er óhugsandi. Þannig þarf aukið peningamagn í umferð, samfara aukinni verðbólgu, ekki að þýða að um beint orsaka samband sé að ræða þar á milli, á þann hátt sem peningamagnsskýringar gera ráð fyrir. Annað atriði við peningamagnskenningar um verðbólgu og skýringar þeirra á henni, er að þær einkennast af tilraunum til að finna sökudólga, sem orsaka eiga verðbólguna, ríkið eða þá sem ráða bankakerfinu. Meðal marxista er látið í það skína að atvinnurekendur standi að baki, en meðal „nýfrjálshyggju" afturhaldsins, er látið í það skína að að baki liggi „heimtufrekja" verkalýðsins og frjáls samningsréttur hans á vinnumarkaðnum. Hér í þessari grein og a.m.k. einni annarri, verður leitast við að sýna fram á, að málið er ekki svo einfalt.

## Hvað er verðbólga?

Verðhækkun er hækkun einstakrar vöru, ekki endilega varanleg. Aðrar vörur gætu lækkað samfara, þannig að verðstig yrði jafnt. Með verðbólgu er átt við **stöðuga almenna verðhækkun.** Verðhjöðnun er andstæðan.

## Einokunarstig og gróðahlutfall

Meðan samkeppni er frjáls, geta stöðugar framfarir í framleiðslutækni leitt til lækkandi verðstigs, verðhjöðnunar. Ef ekki er um samkeppni að ræða, leiðir framleiðsluaukning ekki sjálfkrafa til verðlækkunar á




vörunni. Fyrirtækin reyna að hafa gróða sinn sem mestan í hlutfalli við fjárfestingu og annan kostnað. Gróðahlutfallið verður þannig misjafnt eftir atvinnugreinum. Það ræðst af svokölluðu einokunarstigi. Það stig ræðst aftur af samkeppnisafstæðum í greininni og eftirspurnarafstæðum. T.d. ef varan er viðkvæm fyrir verðhækkunum er erfiðara að ná háu gróðahlutfalli, þótt einokun sé. Þetta á við um vörutegundir, sem aðrar vörur geta auðveldlega komið í staðinn fyrir (t.d. smjör og smjörlíki).

Ef einn eða fáir aðilar ráða yfir mestu fjármagni í greininni, eru samkeppnismöguleikar annarra mjög takmarkaðir. Skiptir þá ekki máli, hvort einokunin er í formi formlegrar eignar, samvinnu eða samkomulags um vöruverð (t.d. á bensíni).

Mikilvægt er fyrir einokunarfyrirtækin, að önnur fyrirtæki hefji ekki samkeppni. Það gæti gerst ef gróðahlutfall í atvinnugreininni er of hátt. Mikil miðstýring í atvinnugrein fælir þó fyrirtæki frá að reyna samkeppni og ef mikillar fjárfestingar er þörf í upphafi minnka líkurnar enn á að aðrir hætti sér út í samkeppni. Þannig má búast við, að atvinnugreinar með dýra fjárfestingu græði meira en aðrar. Aukin tækniþróun í framleiðslu á þannig sinn þátt í að styrkja einokunina. Loks ráða bankarnir, í skjóli yfirráða sinna yfir fjármagninu, miklu um möguleika hugsanlegra samkeppnisaðila, en bankarnir eru í mörgum tilfellum persónutengdir eða formlega tengdir stórfyrirtækjunum.

Hækkun einokunarstigs, sem ræðst af fyrrgreindum þáttum, leiðir þannig til hækkaðs gróðahlutfalls, sem fyrirtækin reikna með í verði vörunnar. Þannig skapast í efnahagskerfinu ástand, sem leiðir til að verðlækkanir verða sjaldgæfari, en allir aðilar reyna að bæta sér kostnaðarhækkanir með hækkun vöruverðs til að gróðahlutfallið lækki ekki. Þannig má búast við tilhneigingu til verðhækkana frekar en verðlækkana þegar vissu einokunarstigi er náð.

## Verðbólgan viðheldur sér

Ef gróðahlutfall er svipað og lækkar ekki er líklegt að verðbólga haldist við lengi eftir að hún hefur hafist. Við alla vöruframleiðslu í nútímaþjóðfélagi, skiptir notkun á öðrum vörum svo miklu máli, að verðhækkun í einni grein veldur verðhækkunum í mörgum öðrum greinum. Þessar nýju kostnaðarhækkanir margfaldast með gróðahlutfallinu því fyrirtækin vilja ekki að það lækki. Eftir því sem sérhæfing og verkaskipting er meiri því hraðar snýst spírall af þessu tagi. Verð vinnuafls (laun) kemur inn á svipaðan hátt. Hækkað verð kallar á auknar launakröfur og þær valda auknum kostnaði. Þannig getur launahækkun einnar atvinnugreinar (eins og annar kostnaðarauki) hækkað verð á vörum í þeirri grein og gefið verðbólgunni eldsneyti.

Hversu lengi verðhækkunarspírallinn helst við af eigin rammleik fer eftir því hversu auðvelt er að velta kostnaði áfram. Ef allir aðilar fá sínar kostnaðarhækkanir bættar verður spírallinn eilífur. En ef ekki koma til nýir hvatar stöðvast verðbólgan á endanum, enda ná ekki allir fullum verðbótum. Hins vegar koma alltaf til nýir og nýir hvatar og í næstu grein lítum við örlítið á þá og hvernig hugsanlega getur staðið á óðaverðbólgunni á Íslandi.

(þessi grein er aðallega endursögn á hluta greinarinnar „Prisfastsetting og inflasjon" eftir Iversen og Moene í **Materialisten** nr. 2 1979/ tekið saman af Baldri og KrKa)

# Þurfa kommúnistar alþjóðasamband?

Marx-lenínistar hér á Íslandi hafa gjarnan verið kallaðir maóistar og það með nokkrum rétti. Á fyrstu árum hreyfingarinnar var maóisminn þó ekki höfuðeinkenni hennar heldur var einlæg og einhliða dýrkun á þriðja alþjóðasambandi kommúnista og leiðtoga þess, Stalín, miklu meira mótandi fyrir starf og stefnu marx-lenínista.

Einhver helsti draumur okkar á þessum tíma snerist um nýtt alþjóðasamband, nýtt Komintern. Félagar ræddu um það sín í millum að það hlyti að vera eitt af verkefnum Kínverja að hafa forgöngu um stofnun nýs alþjóðasambands sem hafa skyldi höfuðbækistöðvar í Peking úr því að Moskva var í höndum endurskoðunarsinna. Nokkuð þótti mönnum Kínverjum ganga seint við að koma sér að verki. Væru þeir spurðir að því hvers vegna þeir stofnuðu ekki nýtt alþjóðasamband svöruðu þeir oft með því að segja að slíkt væri ekki tímabært.



**Röng stefna Komintern varð þess m.a. valdandi að ekki tókst að koma í veg fyrir valdatöku nasismans í Þýskalandi.**

Í raun og veru er þó vafasamt hvort kínverskir kommúnistar hafi nokkurn tíma fyrir alvöru sett sér það markmið að stofna nýtt alþjóðasamband. Sjálfir komust þeir til valda í Kína svo til án allrar beinnar aðstoðar frá Sovétríkjunum og þriðja alþjóðasambandinu. Oft voru afskipti alþjóðasambandsins og Moskvu af kínversku byltingunni slík að þau skemmdu byltingarbaráttuna frekar en hitt. Þrátt fyrir þá áherslu sem kínverjar leggja á alþjóðahyggju hafa þeir þó í samræmi við reynslu sína litið á það sem grundvallaratriði að sósíalísk bylting geti aldrei sigrað nema til komi byltingarsinnað starf verkalýðs og alþýðu í viðkomandi löndum. Með því að koma á fót alþjóðlegri höfuðbækistöð kommúnista sem gefi út fyrirskipanir um framkvæmd byltingarstarfs í hinum ýmsu löndum væri hið byltingarsinnaða frumkvæði tekið úr höndum kommúnista þar. **Hreyfing sem er stjórnað erlendis frá hefur aldrei verið fær um að framkvæma sósíalíska byltingu.**

## Komintern og Kommúnistaflokkar

Enginn vafi leikur á því að 3. alþjóðasambandið gegndi að mörgu leyti framsýnu hlutverki við þróun og eflingu byltingarsinnaðrar hreyfingar í heimin-

Framhald á bls. 10.

Böðvar Guðmundsson:

# Vitundin er dauf og sljó

**1.** Hún er einhvers konar vitund launafólks, sem með einhverjum hætti beinist gegn þeim sem stjórna og eiga atvinnufyrirtæki. Til hennar teljast öll samtök launafólks, verkalýðshreyfingin og Alþýðusambandið. Pólitískir armar þessarar vitundar teygja sig allt frá Alþýðuflokknum yfir til hinna litlu marxísku hópa."



**Böðvar Guðmundsson**

**2.** Þessi vitund er ekki nema að litlu leyti skörp nú. Verkalýðsbarátta síðustu áratuga hefur eingöngu verið spursmál um aukna neyslu, en í engu um eign eða önnur þjóðfélagsmál. Vitundin er dauf og sljó, lítið spekúlerað í hvers vegna alltaf þarf að standa í kjarabaráttu. Hreyfingin afskaplega óvirk, mjög fáir eru virkir þátttakendur."

**3.** Fyrst og fremst að glæða félagslegan áhuga fólks. Reyna að fá fólk til að trúa, að það geti verið skaparar sinna eigin örlaga."

Arnór Sighvatsson:

# Sameining í baráttu fyrir sósíalisma

**1.** Við þessu er ekki hægt að gefa neitt einhlítt svar. Staðreyndin er nefnilega sú, að í munni margra segir hugtakið ,,vinstri'' meira um pólitískt tilfinningalíf viðkomandi en veruleikann. Sú sögulega skírskotun sem hugtakið hefur felur fyrst og fremst í sér andstöðu við ríkjandi skipan þjóðfélagsmála. Þó verður að slá þann varnagla, að feli sú andstaða í sér tilhneigingu til afturhvarfs til einhvers fyrra ástands, mælir hefðin gegn því að slíkt sé flokkað undir vinstrimennsku. Þannig myndum við tæplega tala um frjálshyggju Hannesar Hólmsteins og hans fylgifiska, sem vissulega ber ákveðin merki andstöðu við ríkjandi ástand eða þróun, sem vinstrisinnaða. Þar sem kapitalismi er hið ríkjandi þjóðfélagsform og leifar lénsveldis úr sögunni, er eðlilegast að leggja sömu merkingu í ,,vinstrisinnaður'' og ,,andkapitalískur''.

Vinstriöfl tel ég mega finna í AB, KS, Fylkingunni, e.t.v. að einhverju leyti innan Alþýðuflokksins og utan flokka. Nánari útlistun er hvorki þörf né æskileg og allar tilraunir til að búa til pólitískan gæðastimpil úr slíkum hugtökum þykja mér dæmalaust hvimleiðar.

**2** Það er ákaflega erfitt að koma orðum að því ástandi. Hið svokallaða ysta-vinstri á í talsverðum erfiðleikum, einkum KS. Framtíð þeirra ræðst af því hvort tekst að skjóta traustari stoðum undir stefnu þeirra en áður. Í sinni gömlu mynd munu þau ekki eiga afturkvæmt að mínu mati.



Það virðist þversögn, að um leið og AB afhjúpast meir en áður eru andstöðuöflin veikari en fyrr.

**3.** Sé horft til langs tíma verður að teljast mikilvægast að vinstrihreyfingin finni þann pólitíska grundvöll sem getur sameinað hana í markvissri baráttu fyrir sósíalisma á Íslandi. Mikilvægustu verkefni KS eru á þessu sviði. Sem nærtækari verkefni sem krefjast úrlausnar má nefna eflingu andstöðunnar gegn undanslætti verkalýðsforystunnar og baráttu fyrir auknu lýðræði innan félaganna. Einnig má nefna stefnumótun í öryggis- og varnarmálum samhliða baráttunni fyrir brottför hersins. Í þriðja lagi vil ég nefna húsnæðismálin. Að lokum vil ég leggja áherslu á að vinstri hreyfingin ræki alþjóðlegar skyldur sínar eftir mætti. Nóg eru verkefnin í El Salvador, Póllandi og Afganistan svo dæmi séu tekin.



**Útifundur ASÍ á Lækjartorgi 1. mars 1978.**

# VINSTRI H
## Spurninga

**Verkalýðsblaðið bað nokkra yfirlýsta félagshyggju- og vinstri menn að svara þremur spurningum. Þær eru:**

**1. Hvernig skilgreinir þú vinstri hreyfinguna á Ís-**

Árni Hjartarson:

# Öflugan marxískan verkalýðs-flokk

**1.** Orðið vinstrihreyfing er ekki vísindalega skilgreint né fastmótað. Hægt væri að skilgreina hreyfinguna sem samsafn allra þeirra hópa og einstaklinga sem kenna sig á einhvern hátt við sósíalisma og samvinnustefnu og láta svo gamminn geysa út frá því, en þegar ég tala um vinstrihreyfingu hér á eftir á ég við það lið, sem staðið hefur vinstra megin við Alþýðubandalagið og í vinstri jaðri þess. Í þessum hópi ber fyrsta fræga að telja okkur Fylkingarmenn, síðan munaðarlausa marxista allrahanda og sentrista, rauðsokka, maóista að hluta til og alla balla að parti. Á síðasta áratug var kjarni þessarar hreyfingar fólk sem öðlaðist pólitíska vitund og áhuga um og uppúr 1968.



**Árni Hjartarson**

**2.** Það er líklega að bera í bakkafullan lækinn að lýsa því yfir við lesendur Verkalýðsblaðsins, að hreyfingin sé í kreppu. '68 bylgjan er að deyja út. Fylkingin hefur ekki gert meira en að halda í horfinu, maóisminn er brotinn og búinn að vera, rauðsokkahreyfingin á við mótblástur að stríða og nýtur lítils af kvennaframboðum, sentristarnir eru flöktandi og sundraðir sem endranær og vinstri allaballar í kratískri herleiðingu og hefur aldrei tekist að skapa sjálfstæðan skoðanahóp eða arm innan flokksins.

Það er ekki hægt að segja að sú rauða og vígreifa hreyfing sem kölluð hefur verið '68 kynslóðin geti fagnað stórum árangri eða miklum sigurtáknum. Ástæðurnar eru auðvitað margar en hin veigamesta er vitaskuld sú, að hreyfingin var alltaf námsmannahreyfing sem skorti ítök í grunneiningum þjóðfélagsins og hafði lítinn pólitískan bakhjarl. Önnur ástæðan var sundrung hreyfingarinnar sem reyndar var sumpart endurspeglun af klofningi heimskommúnismans. Klofningur og óeining maóista er svo sérkapítuli í þessari sögu sem rúmsins vegna verður ekki krufinn hér.

Menn hafa brugðist misjafnlega við hnignun hinnar vonglöðu '68 hreyfingar. Margir hafa lagt upp laupana og fá exem og innvortis blæðingar ef minnst er á pólitík, aðrir hafa lagst í miskunnarlausa sjálfsgagnrýni, endurmetið stöðuna og skorið kreddurnar niður við trog. Hefur þá stundum brunnið við að fleira hefur lent undir hnífnum en æskilegt væri. Þannig hefur hent að þeir sem voru að nema burt af sér ýmsar stalínískar meinsemdir hreinsuðu út lenínismann í leiðinni og standa svo uppi sem veglausir miðjukratar. Aðrir verða að

# REYFINGIN
# og svör

landi?
2. Hver er staða vinstri hreyfingarinnar?
3. Hver eru mikilvægustu verkefni vinstri hreyfingarinnar?



Frá Hvaleyrargöngu herstöðvaandstæðinga 1979.



prinsipplausum hentistefnumönnum. Dómur reynslunnar er miskunnarlaus og refsingin hörð og ekki alltaf mannbætandi.

Ef menn eru farnir að halda að hér sé á ferðinni svartagallsraus manns sem hættur er að sjá ljósglætu í baráttunni þá er það misskilningur. Persónulega er ég nefnilega fremur hress í bragði og bjartsýnn þótt það sé óneitanlega spælandi að sjá á eftir góðum baráttumönnum og hreyfingum sem týnt hafa áttunum í þokufullum heimi þjóðmálabaráttunnar. Hluti þessarar vinstrihreyfingar hefur nefnilega sýnt af sér stefnufestu og þrautseigju sem fleytt hefur henni gengum þessa uppgjörstíma. Að auki er auðsætt að ný vinstrihreyfing er að byrja að hasla sér völl hérlendis sem og í Evrópu. Þessi hreyfing er all frábrugðin þeirri sem nú er að ljúka sínu sögulega hlutverki, ekki eins skærrauð, ekki eins bóklærð, ekki haldin sömu byltingaróþreyju en á sér dýpri rætur í þjóðfélagsgerðinni. Hér er átt við litríka hreyfingu sem sprettur upp úr frjóum jarðvegi friðarhreyfinganna, umhverfisverndarbaráttunnar, kvenfrelsisbaráttunnar og harðgerða hreyfingu sem vex úr grýttri mold auðvaldskreppu og atvinnuleysis.

Sósíalistaflokkar og kommúnistaflokkar Vestur-Evrópu standa sterkari en nokkru sinni fyrr og sósíalískri baráttu vex fiskur um hrygg í öðrum hlutum auðvaldsheimsins og að auki innan skrifræðisblokkanna í austri. Þótt pólitíska byltingin í Póllandi eigi mjög í vök að verjast hefur hún þegar sýnt verkalýð A-Evrópu hvers frjáls og sameinuð verkalýðshreyfing er megnug. Það fordæmi mun verða skrifræðisklíkunum skeinuhætt.

**3.** Það væri auðvitað freistandi fyrir mig að segja, að það væri að byggja upp Fylkinguna, efla Fjórða alþjóðasambandið o.s.frv. Þeim flokksegóisma ætla ég þó að víkja frá mér. Brýnustu verkefnin eru mörg. Eitt þeirra er að verja sósíalíska hugmyndafræði og baráttuhefðir þeim skakkaföllum sem þau kunna að fá í hugum fólks við kratíska hægriþróun Abl. og þess hluta verkalýðshreyfingarinnar sem það stjórnar. Annað verkefnið er að hlú að vaknandi róttækni innan verkalýðshreyfingarinnar og efla sjálfstæðan baráttuvilja þessara afla. Standa þarf vörð um SHA í harðnandi baráttu þeirra gegn hinni gífurlegu hernaðaruppbyggingu sem íslenskir hernaðarsinnar og bandarísk hernaðaryfirvöld hafa á prjónunum. Stuðla þarf að myndun íslenskrar friðarhreyfingar. Efla þarf RSH og þau róttæku jafnréttissjónarmið sem hún hefur staðið fyrir en sporna jafnframt gegn þverpólitískum kvennamenningarhugmyndum og stéttasamvinnutilhneigingum sem tröllriðið hafa kvenréttindaumræðunni undanfarið.

Á vinstra væng íslenskra stjórnmála er að myndast æ stærra pólitískt tómarúm. Hægriþróun Abl. veldur því, að tök þess á vinstra fylginu gerast ótraust. Fyrr en síðar sprettur upp flokkur sem fylla mun þetta rúm. Brýnasta verkefni íslensku vinstrihreyfingarinnar er að flýta þessu og sjá svo um, að þetta verði öflugur marxískur verkalýðsflokkur en ekki eitthvert stalínískt eða moskvusinnað himpigimpi.

Árni Hjartarson

## Ari Trausti Guðmundsson:
# KRATISMI OG ÍHALDSSEMI

**1.** Hugtakið vinstri hreyfing er einstaklingsbundin skilgreining. Fyrir Geir Hallgrímssyni er Brésneff vinstri maður og kommúnisti. Fyrir mér er hann glæpon og glórulaust afturhald.

Ég tel að hver einstaklingur eða stjórnmálasamtök eigi (og þurfi) að skilgreina vinstri hreyfinguna fyrir sjálfum sér og öðrum og berjast fyrir réttmæti skilgreiningarinnar. Í því felst í raun meginatriðið: Viðurkenning á víðtækum hugmyndaágreiningi vinstri manna og nauðsyn þess að úr honum sé unnið.

Mér finnst orð eins og byltingarsinni og kommúnisti segja mun meira en vinstri maður. Í mínum augum er vinstri hreyfing á Íslandi þessi, auk einstaklinga: Alþýðubandalag og þrjú samtök til hliðar við það, Rauðsokkahreyfingin og Félag vinstrimanna í H.Í.

Af þeim tel ég Fylkinguna og Baráttusamtök fyrir stofnun kommúnistaflokks til róttækra og byltingarsinnaðra samtaka. En í hvorugu tilvikunu er um marxísk kommúnísk samtök að ræða. Bæði nota marxisma en víkja svo mikið frá honum (eins og ég skil hann) að þau standast ekki kröfur til slíkra samtaka.

Kommúnistasamtökin tel ég enn marxísk samtök, en þau eru ekki öguð flokksmyndunarsamtök, heldur nær því að vera umræðu- og áróðurssamtök.

**2.** Staða vinstri hreyfingarinnar er ansi tvíbent. Kreddufesta hennar, margvísleg hægri hliðarskref og sígandi þróun austantjaldsríkja yfir í andhverfu sína — allt hefur þetta rúið marxismann trausti fólks. Um leið hefur vinstri hreyfingin margklofnað og vanrækt (eða hafnað) þá dilektísku efnishyggju sem stýrir notkun marxismans til góðs. Noti maður kjörfylgi Alþýðubandalagsins og Sósíalistaflokksins í 40 ár sem mælikvarða (þó hæpið!) er ljóst að hreyfingin hér á landi er löngu stöðnuð. Staða kjaramála, samningaaðferðir og völd alþýðu sýna það sama.

Kratisminn í aðra hönd og kreddubundin íhaldssemi á gamlan stefnuarf í hina gera að verkum að stór hluti hreyfingarinnar er afllítill og lítið annað en hækja undir peningavaldið. Smásamtökin hafa hengt sig í dráttarvagna á borð við Kína, Albaníu eða 4. alþjóðasambandið og verið um margt fyrirmunað (og stikkfrí frá) að tengja saman marxismann og


Ari Trausti Guðmundsson

íslenskan veruleika. Auk þess ræðast þessir aðilar lítið við og heldur það aftur af þróuninni. Á hinn bóginn er áhugi meðal fólks á róttækum kreppulausnum og alþýðuvöldum og því lag að sumu leyti.

**3.** Brýnustu verkefnin ráðast af stöðu vinstri hreyfingarinnar og markmiðum. Markmið kommúnista er að koma á fót nýjum byltingarsinnuðum verkalýðsflokki sem hefur almennilega fjöldastefnu og starfar sem samheldin samtök á grunni stéttabaráttu.

Fyrir mér er þá tvennt nærtækast:

1. Aukið samstarf vinstri manna um stök málefni eða af sérstöku tilefni, s.s. 1. maí við kosningar, í stéttarfélagastarfi, til stuðnings erlendri alþýðu o.fl. Aðrir eiga þar líka heima eftir atvikum.
2. Margefld hugmyndafræðibarátta vinstri manna innbyrðis. Móta þarf stjórnlist (strategíu) og baráttuaðferðir (taktík) sem stendur ,,föstum fótum'' í raunveruleikanum og eru leiðbeiningar í starfi fyrir daginn í dag og næstu ár.

Slík vinna er ferli og tekur langan tíma að bæta fyrir áratuga vanrækslu og afhjúpa inntakið í þingræðishyggju allaballa. Svona starf útheimtir umræðufundi, ráðstefnur og útgáfustarf.

Fyrsta kastið mætti hugsa sér ráðstefnu vinstri manna með haustinu er fjalla myndi um ágreining og verkefni, einhverja útgáfu blaðs í tengslum við málfundastarf og umræður um sameiginlegt framboð til Alþingiskosninga.

# Tryggja kosningar lýðræði?

Sumir trúa því. Sumir telja kosningarnar í El Salvador sönnun þess, að þar sé lýðræði. Samt kom það fram í ýmsum fréttum, að margt fólk hefði farið á kjörstað í þeim eina tilgangi að bjarga líftórunni, því þeir sem ekki kysu yrðu settir á svartan lista. Framúrskarandi góð kjörsókn í austantjaldslöndunum kann að hafa hliðstæðar orsakir. Svo eiga heldur ekki allir jafn auðvelt með að koma boðskap sínum á framfæri í þessum löndum.

Aðrir hrista hausinn yfir kosningaskrípaleiknum í El Salvador og austantjaldslöndunum, en berja sér á brjóst og segja: Á Íslandi er lýðræðið fullkomið; óskert tjáningarfrelsi og mikil kjörsókn, þar sem allir kjósa af fúsum og frjálsum vilja og allir finna eitthvað.



**Kosningar hafa ekki orðið hrjáðri alþýðu El Salvador trygging fyrir lýðræði.**

## Áleitnar spurningar

Er það svo? Fara allir á kjörstað til að kjósa eftir **sinni** sannfæringu **sína** stefnu og **sína** menn? Fær fólk góð tækifæri og uppörvun til að kynna sér málin frá sem flestum hliðum? Er kosið um andstæðar stefnur eða eru þær allar keimlíkar?

Er það kannske þannig að flestir hafi kynnt sér málin lítið eða fengið einhliða „fræðslu" frá flokksmálgagni eða svokölluðum óháðum fjölmiðlum (gera þegar best lætur ekki upp á milli flokkanna fjögurra)? Hvað veit venjulegt fólk um það sem gerist í innstu valdaklíkum þjóðfélagsins? Hvað er að marka það, sem sagt er í framboðsræðum?

Er ekki næsta lítill munur á flokkunum 4? Hafa þeir ekki hagað sér svipað í ríkisstjórnum? ER ýkja mikill munur á núverandi ríkisstjórn og Geirsstjórninni sálugu? Hafa orðið umtalsverðar breytingar á stjórnun Reykjavíkur við það að „vinstri"-flokkarnir tóku við af íhaldinu?

Er ekki mikill aðstöðumunur þegar gróinn stjórnmálaflokkur með málgagn kostað af ríkisfé og gnægð auglýsingafjármagns heyr kosningabaráttu, samanborið við ný samtök eins og kvennaframboðin?

## Af fúsum og frjálsum vilja?

Hversu frjálst og ótilneytt fer fólk í kjörklefann hér á landi? Hvers vegna leggja allir flokkar svo mikið upp úr kosningasmölun, eins og raun ber vitni? Flokksmenn skipta með sér verkum og leggst hver á sína ættingja, kunningja og jafnvel vinnufélaga og nauða í þeim að kjósa „rétt", þ.e. kjósa sinn flokk. Ófá lán, lóðir og stöður eru veittar út á flokksþjónkun. Margir reikna út í krónum og aurum hvaða flokk sé best að styðja.

Áður fyrr réðu ættarhöfðingjar oft hvernig öll ættin kaus og víða eimir eftir af því enn, fólk fæðist í flokk.

Á kjördag stunda flokkarnir grófustu persónunjósnir, hringja í fólk og reyna að tala það upp í kosningabíla. Gamalmenni, sem komin eru út úr heiminum, eru drifin á kjörstað. Hversu margir gera það ekki **fyrir einhvern** að kjósa þennan eða hinn?

Ég giska á, að u.þ.b. 3 af hverjum 4 kjósendum sé á einhvern hátt mútað eða ógnað til að kjósa eða geri það í gustukaskyni fyrir vin eða ættingja. Þetta er tilgáta. Gaman væri, ef þetta væri kannað félagsfræðilega.

Ég tel, að þátttökuleysið í prófkjörum flokkanna nú í vetur styðji tilgátuna óbeint. Sem dæmi má nefna, að á Ísafirði var sameiginlegt, opið prófkjör allra flokka. Allir, sem hafa kosningarétt, máttu raða mönnum á einn af listunum 4. Prófkjörið var vel kynnt, en **smölun fremur lítil, enda kaus innan við þriðjungur kjósenda.**

Hver skyldi kosningaþátttakan verða í vor, ef flokkarnir smöluðu ekki í kjörklefana, en létu sér nægja að kynna frambjóðendur og stefnumál.

## Lýðræði er meira en að krossa á blað

Ég held að í bæjar- og sveitarstjórnarkosningum sé oft úr meiru að velja, auðveldara að taka málefnabundna afstöðu og hafa áhrif en í alþingiskosningum. Fjarlægðin milli fólks og stjórnenda er oft ekki ýkja mikil, en þýðingarmiklar ákvarðanir eru þó oft teknar í lokuðum klíkum og oft í Reykjavík.

Ég tel rétt að fólk krossi við skásta kostinn. Þó er mun þýðingarmeira að taka þátt í umræðu, sem fer fram fyrir kosningar, að gagnrýna, spyrja og krefjast svara. Til þess gefast þó ekki mörg tækifæri og alltof fáir treysta sér til að tala og skrifa opinberlega.

Enginn flokkanna sinna að ráði þeirri lýðræðisskyldu að virkja fólk til þátttöku með námskeiðum og „grasrótarstarfi". Þeir leggja mun meira kapp á að reka fólk eins og sauðfé í rétt og draga í dilka. Þetta geta tæplega talist vera lýðræðislegir flokkar, heldur tæki fyrir fámennar klíkur að halda fólki innan skefja, valdatæki fámennrar yfirstéttar.

Þeir sem samþykkja ofansagt hljóta að sjá, hversu brýnt það er að koma á legg nýju stjórnmálaafli, sem starfi mjög ólíkt núverandi stjórnmálaflokkum og stefni í allt aðra átt — það er að segja, ef við viljum lýðræði, sem nær til hins vinnandi og skapandi fjölda.

ÞÖÁ

# Grettistaki lyft á Ísafirði

Litli leikklúbburinn á Ísafirði hefur sett upp nýtt leikrit eftir ritsnillinginn og baráttumanninn Böðvar Guðmundsson. Leikritið heitir „Úr aldaannál" og byggir að hluta til á atburðum, er gerðust austur á Fjörðum fyrir 2 öldum síðan.

Allt kosningabrölt stjórnmálaflokkanna á Ísafirði er harla ómerkilegt samanborið við þetta átak Litla leikklúbbsins. Á annan tug karla og kvenna hafa varið nær öllum frístundum sínum í röska 2 mánuði til að skapa frá grunni stórbrotið listaverk og haft árangur sem erfiði.

Það má að talsverðu leyti þakka leikstjóranum, Kára Halldóri. Hann er eldhugi og fer ekki troðnar slóðir. Hann gæti verið dálítill maóisti inn við beinið, a.m.k. leggur hann mikið upp úr að virkja sköpunarkraft leikaranna allra. Hann gefur þeim lausan tauminn til að prófa sig áfram við sköpun persóna og atburða, gagnrýnir og leiðbeinir og gerir miklar kröfur til vinnu og einlægni.

Allir leikararnir, 9 talsins, sýna okkur inn í hugarheim og lífsbaráttu ólíkra manneskja af næmri tilfinningu. Enginn fellur í skuggann, enginn leikur áberandi verst og enginn áberandi best, enda erfitt að bera saman svo ólíkar persónur.

Leikmyndin, sem Kári Halldór hannaði er óvenjuleg og á sinn þátt í því að ímyndunarafl áhorfandans fær mjög að njóta sín í leikritinu. Tónlist Jónasar Tómassonar er látlaus, smekkleg og mögnuð á köflum.

Þetta verk Böðvars ber það mjög með sér að það er skrifað árið 1982 á tímum stríðsótta, kreppu og stéttarlegrar niðurlægingar og sundrunar íslensks verkalýðs. Túlkun hans á birtingu stéttarmótherfa og mótherfa milli kynja er blæbrigðarík og opinská. Bræðralag hinna kúguðu er takmarkað, jafnvel þeirra á meðal kúgar sá sterkari þann sem minna má sín. Víst er því þannig varið, að samstaða hinna undirokuðu gegn rotnu yfirvaldi sprettur ekki sjálfkrafa, hvorki nú né fyrir 2 öldum. Þar þarf vísvitað frumkvæði, nám og umræðu til. Það tókst ekki fyrir 2 öldum, því öll lífsorka þeirra undirokuðu fór í að sinna frumþörfum. Nú gengur ögn skár að afla brýnustu nauðsynja, en samt held ég að fáum gefist færi á að **hugsa sitt** ráð og móta **sína** lífsstefnu. Það hefur sitt að segja, að æðsta pólitíska og faglega forystan er að mestu komin yfir í herbúðir hinna. Var ekki áróður prestanna hér áður fyrr um hollustu við guð og kónginn saklaus miðað við núverandi hálffalinn áróður fjölmiðla um hollustu við ríkiseinokunarauðvald og mammon?

Presturinn í leikritinu er góð manneskja, sem þolir illa að horfa upp á sára eymd fólksins og valdníðslu hins rotna yfirvalds. Hann flýr því á náðir Bakkusar þegar hann á þess kost.

Sjálfseignarbóndinn er eymdarinnar smásál. Til að verja litla konungsríkið sitt hefur hann kosið að uppræta úr hjarta sínu allar mannlegar tilfinningar í garð sveltandi umrenninga. Hafi sýslumaðurinn einhvern tíma verið manneskja, þá er það liðin tíð. Hann er alveg gegnumrotinn. Í umræðum eftir frumsýningu lét ísfirskur smákapítalisti í ljós vanþóknun sína á að þeir sem eigi eitthvað undir sér séu túlkaðir á þennan hátt. Það kann að vera að Böðvar gefi her full einhliða mynd.

Mér finnst leikritið túlka vel stöðu kvenna, jafnt af háum sem lágum stéttum. Rithöfundurinn nýtur góðs af mikilli umræðu um þau mál, sem hér á landi blómstrar ekki hvað síst í kringum kvennaframboðin á Akureyri og í Reykjavík. Leikritið er ágætt innlegg í þá umræðu.

Litli leikklúbburinn hefur gefið leikritið út á prenti, en sjón er þó sögu ríkari. Vonandi fá Reykvíkingar að sjá verkið á Listahátíð í sumar.

Þetta verk er 3. verkefni leikklúbbsins í vetur. Þorri Ísfirðinga og nágranna sýna þessum lífsþyrsta leikklúbbi sínum of litla ræktarsemi og tekur glerharðan sjónvarpsskerminn fram yfir leiklist af holdi og blóði. Þótt sumum kunni að finnast það undarlegt, þá fannst mér meira varið í þetta leikrit heldur en Dallas!

Mér finnst að verkalýðsfélögin á Vestfjörðum eigi að styðja þetta framtak fjárhagslega og hvetja félagsfólk til að fara í Félagsheimilið í Hnífsdal og sjá þar sjálft sig og forfeður sína ljóslifandi.

Þorvaldur Örn Árnason

# Möguleikar Íslands í áliðnaði

Í Dagblaðinu birtist nýlega forsíðugrein sem ber yfirfyrirsögnina:,, Kynning Dagblaðsins á markmiðum Íslendinga í áliðnaðarmálum'' Engra heimilda er getið ekki einu sinni sagt að heimildarmaður sé fyrir greininni. Gera verður þó ráð fyrir að einhver fótur sé fyrir fréttinni, annaðhvort í ríkisstjórninni eða ráðuneytum.

Í grein þessari, er markmiðum lýst þannig að ef ekki verði af hraðfara yfirtöku Íslendinga á álverinu þá verði samið um þrefalda hækkun á orkuverði. Ef álverið verði þjóðnýtt hratt þá hækki orkuverð rúmlega tvöfalt. Jafnframt er sett sem markmið að bætt verði við framleiðslugetu í stóriðju sem svari 130.000 tonna álverksmiðju.

Verkalýðsblaðið hefur lýst afstöðu sinni til þessara mála í grein frá 26. janúar 1982. Þar kemur fram að iðnaðaruppbygging ætti að byggjast á fjórum meginmarkmiðum: sjálfræði landsins, tækniþekkingu landsmanna, fámenni og orkuauðæfum.

Hérlendis er unnt að byggja upp háþróaðan iðnað, sem nýtir orku fallvatna, grundvallist á sjálfvirkni, og framleiði vöru sem þurfi enga fjölþjóðahringi til að koma á markað.

Nú eru á döfinni viðræður ríkisstjórnarinnar við dr. Muller, aðalforstjóra Alusuisse. Alþýðubandalagið hefur sett fram kröfur um að ef samningar takist ekki við Alusuisse, þá verði álverið þjóðnýtt. Hverjir eru möguleikar á að nálgast þau markmið sem sett voru fram í Verkalýðsblaðinu? Getur Alþýðubandalagið náð fram hluta af þessum markmiðum, og er æskilegt að reka áliðnað hér á landi?

Verkalýðsblaðið leitaði til Elíasar Davíðssonar, sem löngum hefur barist gegn ÍSAL og Alusuisse. Hann taldi ekki miklar líkur á því að árangur yrði af viðræðunum. Forsendurnar fyrir árangri Íslendingum í hag skorti. Margir ráðherranna hefðu vafasama fortíð í samskiptum við ÍSAL og flestir hefðu þeir takmarkaða hagsmuni að byggja á í viðræðunum.

,,Alþýðubandalagið gerir ekkert af sjálfsdáðum nema til komi víðtæk samstaða og þrýstingur frá mörgum aðilum í þjóðfélaginu. Ríkisstjórnin hefur í rauninni ekkert að byggja á nema óljóst og óáþreifanlegt almenningsálit.''

Elías taldi hins vegar áðurnefnda grein í Dagblaðinu mjög jákvæða ef um væri að ræða afstöðu ríkisstjórnarinnar eða aðila í henni.

Aðspurður að því hverja hann teldi möguleika Íslendinga á álmarkaðnum vera sagði Elías að lykillinn að möguleikum okkar væri yfirtaka álversins. Þar fengist reynsla og þekking sem gæti nýst okkur í áframhaldandi uppbyggingu áliðnaðar. Dýrt væri að byggja álver frá grunni. Nauðsynlegt væri að Alusuisse hyrfi héðan vegna óhollra áhrifa og innblöndunar í innanríkismál Íslendinga.

Elías hélt því fram að Íslendingar ættu að geta hagnast á sjálfstæðri uppbyggingu áliðnaðar og taldi að kreppan í áliðnaðinum sé að nokkru búin til af auðhringunum og verði ekki langvarandi.

framhald af bls. 4

## Nýtt stig.

eigi að fara að því sé í sjálfu sér nægur grundvöllur til að byrja á í andstöðustarfi í verkalýðsfélögunum. Það má segja að út úr því hljóti að koma einhver pólitík. Það gefur hins vegar verri raun að keyra af stað með einhverja pólitík í upphafi. Það verður að gefa fólki tíma til að læra hana í starfi.

óhs



Elías Davíðsson spyr:

# STAÐREYNDUM ÓSVARAÐ

**Eftirfarandi bréf sendi Elías Davíðsson til allra alþingismanna og fjölmiðla. Enginn þorði að birta það né svara því.**



1. Árin 1975—1979 er Alusuisse talið hafa svikið milli 16 og 30 millj. dollara undskatti á Íslandi. Fyrri tala er niðurstaða hins alþjóðlega og óháða endurskoðunarfyrirtækis 'Coopers & Lybrand'. Sú seinni er úr lögfræðilegu áliti lögfræðingsins 'D.J.Freeman;. Ofangreindar tölur ná aðeins yfir meint svik Alusuisse í súrálsviðskiptum.
2. Árið 1980 reyndi Alusuisse að svíkja 8,6 millj. dollara undan skatti á Íslandi. Svikin voru fundin í tæka tíð. Var inneign Alusuisse í ríkissjóði því lækkuð sem nemur um 2,7 millj. dollara.
3. Á árunum 1975—1980 er dótturfyrirtæki Alusuisse á Íslandi (ÍSAL) talið hafa staðið að skjalafalsi að fjárhæð samtals 5,5 millj. dollara. Þetta kemur fram í skýrslu Alusuisse til stjórnvalda dags. 11. feb. 1981 og í játningu forstjóra ÍSAL í viðtali við 'Dagblaðið' 25. júlí 1981.
4. Frá stofnu ÍSAL hefur Alusuisse greitt fulltrúum íslenska ríkisins umtalsvert fé, eða um 5000 dollara á ári per þiggjanda. Þessir þiggjendur voru þeir sem áttu að gæta hagsmuna íslenska ríkisins gagnvart Alusuisse með setu í stjórn ÍSAL.
5. Á árunum 1970—1982 hef- Alusuisse — í gegnum dótturfyrirtæki sitt á Íslandi — rekið áróður í fjölmiðlum landsins og á vinnustað. Pólitísk afskipti hins erlenda fyrirtækis af innanríkismálum eru andstæð þeim reglum sem O.E.C.D. hefur sett varðandi starfsemi fjölþjóða fyrirtækja í erlendum ríkjum.

ÆTLAR ÞÚ AÐ ...

...SYNA ALUSUISSE TRAUST, VIRÐINGU OG VIÐEIGANDI LINKIND ?
...VEITA ALUSUISSE AUKIN AFNOT AF ORKULINDUM LANDSMANNA ?
...AUKA UMSVIF ALUSUISSE I ISLENSKU ÞJOÐ- OG FELAGSLIFI ?
...SETJAST AÐ SAMNINGABORÐI VIÐ MEINTA FJARSVIKARA ?

EÐA...

...LÖGLEIÐA HIÐ FYRSTA EÐLILEGT RAFORKUVERÐ TIL ALUSUISSE ?
...JAFNA REIKNING ISLENDINGA VIÐ ALUSUISSE MEÐ EIGNAUPPTÖKU ?
...UNDIRBÚA REKSTUR ALVERSINS UNDIR STJÖRN ISLENDINGA ?

# Bækurnar um LENNON

## síðari hluti






Lennon-bókaflóðið margfræga sem fylgdi í kjölfar morðsins á John Lennon, hefur ekki farið framhjá Íslendingum. Bókabúðirnar eru yfirfullar af ódýrum engilsaxneskum pappírskiljum um Lennon, þrjár bækur hafa komið út á íslensku um Lennon og tilkynnt hefur verið um útgáfu 6 slíkra til viðbótar.

Eðlilega vekja íslensku bækurnar meiri áhuga. Enda hafa þær verið auglýstar ótæpilega.

Tvær af þegar útkomnu bókunum á íslensku eru þýddar. Önnur þeirra, ,,Lifað með Lennon'', er skrifuð af fyrri eiginkonu Lennons, Cynthiu. Þetta er einföld, barnaleg og illa þýdd bók, morandi í prentvillum.

Hin er skrifuð af blaðamanninum Roy Connolly. Sá titlar sig vin Lennon-Ono hjónanna þrátt fyrir að bókin sé samfelld árás á vinstri pólitík Lennons.

Báðar bækurnar eru óvandaðar og hinar ódýrustu í alla staði.

Þriðja bókin um Lennon, ,,Bara Lennon'', er skrifuð af Illuga Jökulssyni. Þetta er virkilega vönduð bók. Svo vönduð að útgáfa hennar kemur ekki til með að borga sig fjárhagslega.

Illugi skrifar af hæfilegri virðingu fyrir hinum látna listamanni og hann er blessunarlega laus við þá væmni sem oft fylgir svona bókum. Þá hefur það ekki svo lítið að segja að Illugi kemur hugsun sinn frábærlega vel á blað. Hann verður tvímælalaust að teljast í hópi færustu penna landsins.

Það er svo annað mál að lesandinn þarf ekki að samþykkja allt sem Illugi skrifar. Í bókinni segir Illugi t.d. að textar plötunnar ,,Sometimes in N.Y. City'' séu svo róttækir ,,að menn ætluðu að John hefði gleymt heiti sínu í laginu ,,Revolution'': ,,But when you talk about destruction/don't you know that you can count me out''.''

Þetta er hæpin hugleiðing. Í annarri útgáfu af ,, Revolution'' söng Lennon nefnilega ,,count me **in**'' í stað ,,count me **out**''. John hélt því einnig síðar fram að hann hefði haft rangt fyrir sér í ,,Revolution''. Hann hafði m.ö.o. engu gleymt. Hann hafði aðeins skipt um skoðun.

Að umræddu atriði slepptu er bókstaflega ekkert út á ,,Bara Lennon'' setjandi. Bókin ,,ber höfuð og herðar'' yfir aðrar Lennon-bækur, útlendar sem innlendar. Henni fylgir jafnframt bráðskemmtilegur kafli um Bítlaæðið á Íslandi.

—jGuð

# Þurfa kommúnistar alþjóðasamband?

Framhald af bls. 5
um á millistríðsárunum.

Í mörgum löndum átti það frumkvæðið að því að skipuleggja kommúnista í byltingarsinnaða flokka. Það samhæfði krafta þeirra og færði þeim festu og öryggi. Þorri félaga í hinum ýmsu kommúnistaflokkum fylgdu í öruggri trú línunni eins og var á hverjum tíma frá Moskvu. Þeir voru ekki í nokkrum vafa um að hún væri í samræmi við raunverulegar þarfir heimsbyltingarinnar og mundi leiða til byltingar í þeirra eigin landi.

Því miður reyndist pólitísk stefna Komintern oft mjög illa og stundum leiddi hún jafnvel til alvarlegra ósigra byltingarhreyfingarinnar. Nægir í því sambandi að minna á afstöðu kommúnista til fasista og Þýskalands nasismans við upphaf seinni heimsstyrjaldar. Í stað þess að nú sem viðtækastri samfylkingu til að berjast gegn fasismanum og fyrir lýðréttindum lögðu þeir sumstaðar höfuðáhersluna á baráttu gegn sósíaldemókrötum sem þeir kölluðu sósíalfasista. Eftir að Sovétríkin og Þýskaland höfðu gert með sér griðasamning var mótuð sú afstaða til styrjaldarinnar að hún væri stríð milli tveggja heimsvaldasinnaðra blokka sem kommúnistar gætu hvoruga stutt. Kommúnistar skyldu leggja höfuðáherslu á byltingarsinnaða baráttu í hvaða landi sem væri og berjast gegn stríðsundirbúningnum.

Það var ekki fyrr en Þýskaland réðist inn í Sovétríkin að kommúnistar breyttu afstöðu sinni til stríðsins. Þá var sett fram sú kenning að stríðið hefði breytt um eðli og að höfuðverkefni kommúnista væri nú að berjast gegn fasismanum og verja Sovétríkin. Ekki er hægt að neita því að ákveðin eðlisbreyting átti sér stað þegar Sovétríkin drógust inn í heimsstyrjöldina en ekkert bendir til þess að eðli útþenslu- og árásarstefnu þýska nasismans hafi breyst nokkuð við það. Með því að fylgja hinni röngu skilgreiningu Moskvu á heimsástandinu við upphaf heimsstyrjaldarinnar, þar sem enginn munur var gerður á fasískum ríkjum og borgaralegum lýðræðisríkjum, varð kommúnistum í Evrópu á alvarleg skyssa sem kostaði ótrúlega mikinn fjölda manns lífið.

Orsök þessarar röngu stefnu lá fyrst og fremst í því að hagsmunir Sovétríkjanna og byltingarsinna í öðrum löndum fóru ekki alltaf saman. **Pólitísk stefna 3. alþjóðasambandsins mótaðist fyrst og fremst af hagsmunum Sovétríkjanna** en tók minna mið af þörfum byltingarinnar annars staðar.

## Alþjóðahyggja og alþjóðasamband

Reynslan af eftirstríðsárunum og byltingum síðari tíma hefur enn frekar undirstrikað nauðsyn þess að byltingarsinnar í hverju landi mót stefnu sína í höfuðatriðum sjálfir, sjálfstætt og í samræmi við kringumstæður á hverjum stað. Þau lönd sem voru frelsuð undan oki fasismans af Rauða hernum sovéska á sínum tíma urðu í raun aldrei aftur fullkomlega sjálfstæð ríki heldur gerði sovéska skrifræðið þau að leppríkjum sem þjóna í meira eða minna mæli þörfum efnahagsog hernaðarstefnu Rússlands. Sá sósíalismi sem komið var á í þessum löndum er ekkert annað en skrípamynd og hula til að dylja raunverulega ósjálfstæði þeirra.

Einungis í löndum þar sem byltingaröflin náðu völdum á sjálfstæðan hátt má greina sósíalisma í þróun og vexti þótt enn sé hann að mörgu leyti ófullkominn.

Að sjálfsögðu útlokar sjálfstæð stefna kommúnista í hverju landi ekki byltingarsinnað samstarf þeirra í milli gegn sameiginlegum óvinum. Slíkt samstarf verður þó ávallt að byggja á jafnrétti. Sé með alþjóðasambandi átt við alþjóðlegt samband kommúnista og byltingarsinna í ýmsum löndum á jafnréttisgrundvelli án þess að sjálfstæði neinna sé skert þá hlýtur það að vera æskilegt og mundi tákna skref fram á við. Eins og ástandið er í dag í heiminum og innan heimshreyfingar byltingarsinna má þó ljóst vera að allar forsendur vantar fyrir stofnun slíks sambands. Sé hins vegar með alþjóðasambandi átt við alþjóðlegan flokk með höfuðbækistöð í einhverju ákveðnu landi (t.d. Kína, Albaníu eða annars staðar) sem tæki ákvarðanir um framkvæmd byltingarbaráttunnar í hinum ýmsu löndum þá tel ég að í ljósi reynslunnar verði raunverulegir byltingarsinnar að hafna því.

R (hefur stundum skrifað undir greinar sem kk)



# Ástandið í El Salvador

**Seint í mars var haldinn blaðamannafundur með Raul Flores Ayla frá El Salvador. VB sendi fulltrúa sinn til fundarins enda Kommúnistasamtökin einn fundarboðenda. Þótt langt sé um liðið þykir rétt að skýra stuttlega frá einhverju af efni fundarins.**

## Hvers vegna vopnuð barátta?

Ayla rakti sögulegar ástæður fyrir henni. Í hálfa öld hafi að mestu leyti ríkt hernaðarlegt einræði með litlum breytingum. Stjórnarandstaðan hafi reynt allar hugsanlegar leiðir. M.a. hafi hún tvisvar unnið kosningar en í kjölfar þeirra hafi fylgt valdarán hers og fjöldamorð. Þess vegna hafi alþýða El Salvador ekki átt annars úrkosta en að grípa til vopna sem séu annað hvort heimatilbúin eða tekin herfangi af stjórnarhernum. Lítilsháttar hafi reyndar verið keypt af vopnum á alþjóðlegum markaði en slík vopn séu dýr.

## Friðsamleg lausn æskileg

Andspyrnuöflin í El Salvador vilja gjarna finna friðsamlega lausn, m.a. vegna hættunnar á því að til íhlutunar Bandaríkjanna komi og að jafnvel ennþá fleiri aðilar dragist inn í átökin og heimsfriðnum sé stefnt í voða.

Alþjóðasamband jafnaðarmanna hefur boðist til að miðla málum svo og forseti Mexíkó. Mexíkó hefur mikilla hagsmuna að gæta. Efnahagslíf Mexíkó kann að vera stefnt í voða með miklum átökum í Mið-Ameríku og Mexíkómönnum er heldur ekkert sérstaklega vel við það að hafa algerar leppstjórnir Bandaríkjanna við völd í Mið-Ameríku. Finnst þannig þrengt óþægilega að sér.

Stjórnvöld í El Salvador og Bandaríkjunum hafa hins vegar sýnt mikla óbilgirni gagnvart tilraunum til samninga og er brýnt að skapa sem mesta alþjóðlega samstöðu í því skyni að reyna að hafa áhrif í þessa átt. —iáj

# Er hægt að stofna Afganistannefnd?

Enn berjast afganskar frelsishetjur af sívaxandi **krafti gegn hernámsliði rússnesku heimsvaldasinnanna.** Nú er jafnvel svo komið, að fréttir eru farnar að berast um að sovéskir æskumenn neiti að láta skrá sig í Afganistanherförina og brenni kvaðningarbréfin sín á sama hátt og gert var í Bandaríkjunum á tímum Víetnamstríðsins.

Aðilar tengdir Kommúnistasamtökunum hafa nýlega verið í sambandi við alþjóðleg, óflokksbundin samtök afganskra menntamanna í útlegð. Samtök þessi hafa mikinn áhuga á að senda mann til Íslands að kynna málstað Afgana (sögðust senda mann til Norðurpólsins ef þörf **krefði!). Sá sem helst kæmi til** greina er sem stendur staddur í Pershawar í Pakistan og gæti komið beint þaðan til Íslands.

Nauðsynlegt er að mynda sem breiðasta samstöðu til stuðnings baráttunni í Afghanistan og mun jafnvel vera í bígerð að stofnuð verði sérstök Afghanistannefnd. Spurningin er sú, hvort þetta sé hægt eða er það ef til vill svo að hægri menn geta ekki hugsað sér sóma síns vegna að vinna með vinstri mönnum, né vinstri menn með hægri mönnum, trottar með maóistum, o.s.frv. o.s.frv.?

# Gleymdu stríðin

Pólland og El Salvador hafa skipað háan sess í íslenskum fjölmiðlum. Á Alþingi ná menn svo langt að minnast á málstað alþýðu í löndum þessum og gera jafnvel einhverjar ráðstafanir til aðstoðar Pólverjum. Í frjálslyndri og vinstri sinnaðri pressu landsins snúast utanríkisskrifin mest um El Salvador og vísast að almenningsálitið sé sem betur fer í hag þarlendum þjóðfrelsismönnum. Röðurinn var þyngri í Viet Nam (sem er reyndar allsendis óháð því hve ómurlega málum þar er komið nú).

Erfitt er að verjast þeirri hugsun að íslenskir sósíalistar séu of linir í andstöðu gegn sovéska afturhaldinu. Svo linir að þeir ljá andkommúnistum mörg vopn í hendurnar — sbr. spurningarnar um hvar tárin séu sem falla fyrir Afgana. Auðvitað eru til hreinir talsmenn þeirra Kremlarkónga og vilja blóðin endilega telja þá óþurftargemlinga til vinstri manna, svo það er varla nema von að afstaða sósíalista til utanríkismála sé furðuleg og kannski flókin til yfirsýnar.

Stríðin í Eritreu og Afganistan er gleymd. Stríðið í Kampútseu er gleymt. Sovétmenn eiga og reka yfirganginn í tveimur tilvikum og vaða sjálfir blóðið í því þriðja. Og þeim hefur orðið ágengt. Í Kampútseumálinu hefur þeim tekist tvennt. Í samvinnu við víetnömsk yfirvöld hefur þeim tekist að leggja undir áhrifasvæði sitt helsta matarforðabúr SA-Asíu og hernaðarlega mikilvægt land. Og hitt hefur þeim tekist að fá Vesturveldin og marga einstaklinga til þess að viðurkenna í verki að eitt ríki megi leggja undir sig annað undir því yfirskini að verið sé að frelsa þjóð undan óhæfum stjórnvöldum.

Sjá menn ekki hvert þessi röksemdafærsla leiðir? Í Afganistan fara þjóðfrelsismenn heldur halloka. Sovétmenn fá óáreittir að efla hernað sinn þar og þeir nýta sér yfirburði til fulls á hörðum vetri og seinkomnu vori. Tala fallinna skiptir hundruð þúsundum og flóttamenn skipta milljónum. Fyrir skömmu var haldin alþjóðleg ráðstefna um Afganistan á Ítalíu. Þar voru lagðar fram kvikmyndir, ljósmyndir og önnur gögn sem sanna ótrúlegustu glæpaverk og hreina ógnarstefnu í garð íbúa stórra landssvæða. Getið þið séð fyrir ykkur stórskotalið og þungvopnaðar þyrlur leggja til atlögu við 2000 manna þorp um hávetur, skjótandi á flýjandi fjölskyldur og eyðandi öllu kviku og öllum húsum? Svo er eitri stráð yfir lík og rústir til þess að teygja eftirleikinn og hræða fólk enn frekar frá baráttu gegn hernáminu.

Það hlýtur að vera skylda rétthugsandi manna að styðja Afgani gegn ómenniskum andstæðingi. Menn verða að hafna réttlætingu stríðsins þarna austurfrá. Þeir verða að hafna kynþátta- og trúarfordómum sem koma fram í orðum um að ekki megi styðja múslimska, fáfróða bændur, fjallabúa eða höfðingja o.s.frv. Í Afganistan eiga sér stað margir El Salvadorharmleikir í einu og þjóðin á að ráða sínum málum sjálf!

Undan ströndum Eritreu hafa Sovétmenn náð að reisa flotastöð í miðju Rauðahafinu. Áhugi þeirra á að útrýma Eritreumönnum er skiljanlegur,

Framhald á bls. 4

# Tékkó og Afganistan

,,Vinstri sinnar verða að viðurkenna að innrásirnar í Tékkóslóvakíu og Afganistan eru merki um sovéska heimsvaldastefnu. Friður er mikilvægur fyrir Evrópu. En fyrir honum er engin trygging meðan stríðið í Afganistan heldur áfram.''

Hinn þekkti tékkneski andófsmaður úr ,,Pragvorinu'' '68 — Jiri Pelikan (Klassekampen ap. '82)

# Fram þjáðir...

Við úthlutun Óskarsverðlaunanna hljómaði Internasjónalinn yfir demantskreyttar frúr og peningafursta skemmtanaiðnaðarins. Kvikmyndin um John Reed (Reds) er gerist á byltingarárunum í Rússlandi fékk flest verðlaunin. Það vantaði bara Brésneff á einhverjum af lúxusbílum sínum...

(Aftenposten, ap.'82)

# Hvað er EMP?

Ef kjarnasprengja er sprengd í 100 — 400 km hæð yfir jörðu, verða flest rafeindatæki óvirk í 2000 — 4000 km fjarlægð. Rafsegulhögg (EMP) hafa þessi áhrif í för með sér og gæti það þýtt að stór hluti iðnaðar, samgangna og herstyrks lamast ef að líkum lætur. Vísindamenn reyna nú að finna upp varnartæki gegn EMP, beggja vegna Atlantshafsins. Segja sumir að austantjaldsríkjum kynni að farnast betur nú ef þau yrðu fyrir EMP vegna margra gamaldags lampatækja sem þar eru enn notuð.

(Svenska Dagbl.)

# Úran á báða bóga

Bandaríkjastjórn gerði nýlega sölusamning um 100 kg af úrani til S-Afríku, en Sovétmenn um sama magn til Argentínu. Úranið er ætlað sem ,,eldsneyti'' í kjarnakljúfa. Því má þó breyta í sprengiefni.

(Klassekampen ap.'82)

# Kjarnavopn til S-Kóreu

Skv. sænskum og n-kóreönskum heimildum hefur Bandaríkjastjórn látið S-Kóreumönnum í té Hawk-eldflaugar með kjarnaoddum. Bandaríkjastjórn hefur ekki borið ásakanir N-Kóreumanna til baka.

(Gnistan nr. 3)

# Af hverju þeir?

Tveir þekktir leiðtogar þjóðfrelsisbaráttu hafa horfið af sjónarsviðinu á þessu ári. Giap hershöfðingi, sá er stjórnaði her N-Víet Nam í Indókínastríðinu, hefur verið rekinn úr valdaflokknum í Víet Nam eins og svo margir aðrir er voru framarlega í eldlínunni á sínum tíma. Kommandante Zero í Nicaragua, lykilherfræðingur Sandinista, hefur yfirgefið landið í mótmælaskyni við það sem hann nefnir ,,yfirgang'' hinna nýju valdhafa''.

Slíkir atburðir vekja spurningar, ekki síður en þegar margyfirlýstri hetju og settum forsætisráðherra er holað í jörðu án viðhafnar í Albaníu, eftir skyndilegan dauðsdaga.

# Man einhver eftir FRETELIN?

Nýlenda Portúgala á Austur-Tímor fékk sjálfstæði 1974 og lýsti öflugasti flokkur eyjaskeggja yfir því að sjálfstætt ríki yrði stofnað og efnt til kosninga. Áður en af því varð réðst grannríkið Indónesía inn í landið. Síðan hafa um 10% íbúanna látist og FRETELIN-flokkurinn háir skæruhernað með um 5-6000 manna liði gegn 50-100.000 manna setuliði Indónesíu. S.Þ. álykta á hverju ári í hag íbúum Austur-Tímor, en ekkert fararsnið er samt á Indónesum er ráða rúmlega 60% eyjahlutans.

(Klassekampen mars '82)

# Utan úr heimi



# En íslensk verkalýðsfélög?

Sjö stór verkalýðsfélög í Noregi og t.d. bæjarstjórnin í Tromsö hafa ályktað um afvopnun. Allar samþykktirnar beinast gegn báðum risaveldunum, sumar gagnrýna einhliða afstöðu norskra friðarhreyfinga gegn öðru hvoru risaveldinu, sérstaklega Bandaríkjunum og flestar setja sem skilyrði fyrir baráttu fyrir kjarnorkuvopnalausum Norðurlöndum að Kólaskagi og hafið umhverfis Norðurlönd sé með í myndinni.

(Klassekampen mars.'82)

# Íran snýr sér í austur

Vegna styrjaldarinnar milli Íraks og Írans, andstöðu við Bandaríkin og ringulreiðar innanlands hafa yfirvöld í Íran tekið æ fleiri boðum Sovétmanna og A-Evrópuríkja um aukin samskipti. Olíusala Írana til A-Evrópu hefur aukist um 50% á einu ári og fá Sovétmenn næst mest af 11 milljónum tonna útflutningi olíunnar. Útflutningur austurblokkarinnar til Írans nær fjórfaldaðist á þremur árum og vex enn hraðar á þessu ári.

(Klassekampen, byggt á Comecontölum.)

# ÍSLENSK FRIÐAR-HREYFING?

Töluverð umræða hefur átt sér stað manna á meðal um hvort rétt sé og hægt að stofna íslenska friðarhreyfingu. Hópur úr Háskólanum hefur boðað til tveggja undirbúningsfunda, með þátttöku ýmissa samtaka, þar sem rætt hefur verið um myndun hreyfingar og friðarráðstefna mun væntanlega verða boðuð í haust. Þá hafa verið stofnuð friðarsamtök á Akureyri.

Nauðsynlegt er að íslensk friðarhreyfing verði breið samfylking ólíkra stjórnmálaafla. Þar þarf að ná til bæði róttækra vinstrimanna sem og hægrimanna og ,,hlutlausra''. Ekki er ástæða til að hreyfingin hafi eina stefnu í öllum atriðum heldur rúmist sem fjölbreyttastar skoðanir innan hennar, svo fremi sem þær eigi það sameiginlegt að kjósa líf gegn stríði.

Tvö atriði eru þó sem íslenskir friðarsinnar verða að gera sér grein fyrir. Þau eru: Hverjir ógna heimsfriðnum og hvernig svörum við þeirri ógnun? Ég vil velta upp nokkrum spurningum sem ég vil að íslenskir friðarsinnar hugleiði.

- Á að berjast fyrir algjörri afvopnun eða að hluta, t.d. gegn bandarískum vopnum í Evrópu, eða gegn kjarnorkuvopnum?
- Er öryggið nóg tryggt með afvopnun, eða þarf Evrópa að geta varið sig sjálf, þ.e. staðið á eigin fótum hernaðarlega án bandarískrar íhlutunar eða forsjár?
- Hvers virði eru friðsamleg samskipti austurs og vesturs?
- Á íslensk friðarhreyfing að taka upp kröfurnar Ísland úr NATO og herinn burt?

Þessum spurningum læt ég ekki svarað að sinni en geri það trúlega síðar.

Að lokum eitt. Íslensk friðarhreyfing verður að virkja ungt fólk (betur en SHA hefur tekist), sem hefur bæði baráttuvilja og tíma frá brauðstriti og fjölskyldu. Slíkt er forsenda fyrir lífi slíkrar hreyfingar. Ungt og hresst fólk hefur einmitt verið aflgjafinn í erlendu friðarhreyfingunum.

Soffía

Lausasala: Kr. 10,00
Áskrift: Kr. 120,00
Stuðningsáskrift: Kr. 170,00
Áskrift til útlanda: Kr. 170,00

Gíró: 12200-9

# Verkalýðsblaðið

3—4. tbl. 11. árg. 1. MAÍ 1982




Ganga Rauðrar verkalýðseiningar og Baráttueiningar 1. maí 1978.

# Rauð verkalýðseining 1. maí 1982

**Að vanda efna róttækir baráttusinnar til sérstakrar kröfugöngu 1. maí, utan ÁSÍ-samflotsins. Að þessu sinni verður að líkindum aðeins ein ganga baráttusinna en ekki tvær eins og undanfarin ár — ganga Rauðrar verkalýðseiningar.**

**Tildrög þessarar einföldunar eru þau, að snemma í mars fóru KS fram á viðræður við Fylkinguna um aðgerðir 1. maí. Í kjölfar þess voru haldnir nokkrir fundir með KS og Fylkingunni þar sem samkomulag náðist um grundvöll sem báðir aðilar gátu í meginatriðum fellt sig við. Síðar komu til skjalanna Baráttusamtökin fyrir stofnun Kommúnistaflokks (BSK) og Rauðsokkahreyfingin. Þar sem BSK gátu ekki fellt sig við samkomulag KS og Fylkingarinnar sem endanlegt, varð það úr að öll ágreiningsmál skyldu borin undir 1. liðsmannafund RVEI. Greidd voru atkvæði um öll helstu ágreiningsmál og urðu Fylkingarmenn yfirleitt hlutskarpari. Þó var samþykkt að KS fengju að bera kröfuna ,,Sovétríkin burt úr Afganistan''. Ennfremur ber að geta þess, að KS fengu ýtt til hliðar óljósum kröfum Fylkingarinnar um ,,verkalýðsstjórn'' í umræðum samtakanna fyrir þennan fund.**

**Þrátt fyrir það kann einhverjum að virðast sem þessi sameining sé of dýru verði keypt. En þá ber að líta á það, að í langflestum atriðum, og einmitt þeim atriðum sem mestu skipta fyrir stéttabaráttuna á Íslandi, eru róttæku öflin á sama eða svipuðu máli. Ágreiningur um alþjóðamál, þótt mikilvægur sé ætti ekki að spilla þessari einingu.**

**Meiru varðar líka að t.d. krafan ,,Sovétríkin burt úr Afganistan'' fái að hljóma í stórri göngu en að hún sé borin í minni og ,,hreinni'' göngu sem ekki næði mikið út fyrir þrengsta stuðningsmannahóp KS. Meiru varðar að snúast gegn ógnum risaveldanna þar sem þær birtast í gerðum þeirra ein skilgreina þær í almennum staðhæfingum. Eftir sem áður er inntak þessarar göngu fólgið í stéttabaráttustefnu og almenningur mun fyrst og fremst líta á hana sem fulltrúa slíkrar stefnu.**

**KS skora á alla félaga og stuðningsmenn að taka fullan þátt í undirbúningi og aðgerðum RVEI. Samstarfið má ekki verða til þess að árar séu lagðar í bát. Allir á götuna 1. maí!**

as.

# METIÐ KVENNAFRAMBOÐ



Nokkrar af aðstandendum Kvennaframboðsins í Reykjavík við Hótel Vík.

**Nú hafa allir flokkar fjölgað til muna konum á framboðslistum. Fleiri eru í öruggum sætum en áður. Þarna ræður Kvennaframboðið (KF) miklu um framfarir. Að þessu leyti er tiltæki kvennanna að Hótel Vík þarflegt. En hvað um framboðið sjálft?**

## Kvennahreyfingin til þessa

Ef frá eru taldir fyrstu áratugir aldarinnar hefur jafnréttisbaráttunni miðað hægt. Með hægriþróun gamla Alþýðuflokksins og eyðingu Kommúnistaflokksins hvarf umtalsvert afl úr kvennahreyfingu landsins. Síðasti áratugur varð eins konar endurnýjunartími hennar, sumpart í tengslum við nýjar róttækar stjórnmálahreyfingar á Vesturlöndum. En kvennahreyfingin er lítið skipulögð. Helst ber á kvenréttindasamtökunum og Rauðsokkahreyfingunni (Rsh). Hvorug samtökin hafa skipt sköpum í baráttunni og snngjarnt mat getur ekki annað en hallað á Rsh sem ekki hefur náð fótfestu utan hóps róttækra menntakvenna. Bæði fyrir og eftir klofning Rsh 1974 hefur feminismi (karlkynið höfuðóvinur) verið ríkur í Rsh. Eftir klofninginn hefur orðið til sérkennileg blanda af feminisma og ,,sósíalískri'' samfylkingu — þar sem hlutstæður málefnagrundvöllur með afmörkuðum málum víkur fyrir sósíal ískri framtíðarsýn. Í raun kemur Rsh þannig alls ekki til móts við kvennafjöldann og útilokar konur frá veru í samtökunum séu þær ekki sósíalistar með nokkuð mótaða heildarsýn. Hversu margar eru þessar konur og af hverju gætu þær ekki nýtt sér flokka og samtök sem til eru? Rsh hefur vissulega átt þátt í umbótum í jafnréttisbaráttunni, en það má draga í efa, í ljósi aðstæðna og reynslu, að Rsh sé sú kvennahreyfing sem mest er þörf á í bili. Hughyggja innan Rsh hefur yfirleitt komið í veg fyrir að Rsh tæki mark á gagnrýni eða reyndi að meta stefnu og starfshætti í ljósi árangurs. Rsh vísaði alfarið á bug gagnrýni marx-lenínista o.fl. sem leiddi til stofnunar 8. mars hreyfingarinnar (er var um margt óþarft skref). Nú hefur Rsh tekið upp gagnrýnina á skipulag og starfshætti og breytt hvoru tveggja! Gott — og

Framhald á bls. 2

## RUKKUNARHORNIÐ

Eftir að þjóðskrá 1981 kom út höfum við nú fundið allmarga þeirra sem flutt höfðu á síðasta ári og láðst hafði að tilkynna okkur breytt heimilisfang. Fá þeir nú blaðið sent með venjulegum hætti. Ef þið viljið fá eitthvað af þeim tölublöðum sem vantar inn í, látið okkur vita í síma 29212 á laugardögum kl. 11—13. Munið svo að tilkynna breytt heimilisfang.

### Rukkun gjalda '82

stendur nú yfir á Reykjavíkursvæðinu. Þegar rukkun í einhverju hverfi er lokið að mestu eru restinni sendir gíróseðlar sem við óskum eftir að verði greiddir sem fyrst.

Grunnárgjald á Íslandi er kr.120.- en verður hækkað eftir 1. júlí.

Áskrifendur úti á landi munu líklega verða rukkaðir með póstkröfu í vor eða haust ef þeir hafa ekki af sjálfsdáðun greitt inn á gíróreikninginn okkar, nr. 12200-9.

### Til áskrifenda erl.

Þetta tölublað er sent út í póstkröfu til þeirra áskrifenda sem skulda árið 1982. Menn eru látnir greiða árið út og eldri skuldir. Rukkun fyrir 1982 er kr. 190,-.

**Rukkunarstjóri**